# Tímarit

Þjóðræknisfélags
Íslendinga

---

XXI. ÁR

---

WINNIPEG, MANITOBA



# Tímarit

## Þjóðræknisfélags Íslendinga

## XXI. Árgangur

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megna að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.
2. Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi.
3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra er þetta land byggja.

Aðrar upplýsingar um félagið veitir "Félagsstjórnin," og má skrifa til hennar. Inngangseyrir og ársgjöld sendist "Fjármálaritara," en áskriftargjald að Tímaritinu "Skjalaverði."

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**
Winnipeg, Manitoba.

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1938-9

**Heiðursverndari**

His Excellency the Right Honourable the Lord Tweedsmuir, G.C.M.G., C.H., Governor-General of Canada.

**A. Heiðursfélagar**

Próf. Árni Pálsson, Reykjavík, Ísland

Próf. Sig. Nordal, Ph. D., Reykjavík, Ísland

Jóhannes Jósefsson, Reykjavík, Ísland

Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld, Winnipeg, Man.

J. Magnús Bjarnason, rith. Elfros, Sask.

Próf. Halld. Hermannsson, Ithaca, N. Y., U.S.A.

Dr. Vilhj. Stefánsson, New York, N. Y., U.S.A.

Friðrik Swanson, málari, Winnipeg, Man.

Mrs. Jakobína Johnson, Skáldkona, Seattle, Wash.

G. J. Guttormsson, skáld Riverton, Man.

Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir Johnson, Skáldkona, Winnipeg, Man.

Prof. F. S. Cawley, Ph.D. Harvard University, Cambridge, Mass.

Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y., U.S.A.

Prof. Watson Kirkconnell, Wesley College, Winnipeg, Man.

Rt. Rev. C. V. Pilcher, D.D. Melbourne, Ástralía

Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, Winnipeg, Man.

**B. Æfifélagar**

Þorgils Þorgeirsson, Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson, málari, Winnipeg, Man.

**C. Ársfélagar**

1. ÍSLAND

Einar Gunnlaugsson, Stóra Sandfelli, Skriðdal um Reyðarfj.

Jónas Jónasson, Reykjavík

Frú Jóhanna Jónasson, Reykjavík

Júlíus Jónsson, Reykjavík

Dr. Ófeigur Ófeigsson, Reykjavík

Frú Margrét Guðmundsd., Reykjavík

Sr. Friðrik Hallgrímsson, Dómkirkjuprestur, Reykjavík

Frk. Halldóra Bjarnad., Reykjavík

Halldóra Sigurjónsson, Reykjavík

Jónas Thordarson, Akureyri

Sr. Benjam. Kristjánsson, Syðra Laugalandi, Eyjafjarðarsýslu.

Sr. Friðrik A. Friðriksson, Húsavík, S.-Þing.sýsla

Hjúkrunarkona Ingibjörg Sveinsson, Landsspítalinn, Reykjavík

Stefán Vagnsson, Hjaltastöðum, Skagafjarðarsýsla

**2. Canada**

**Alameda, Sask.**

Hjörtur Bergsteinsson

**Árborg, Man.**

Björn Árnason
Björn G. Anderson
Steindór Árnason
J. Bergmann
P. K. Bjarnason
Miss Jóna Marja Björnsson
Mrs. Marja Björnsson
Dr. S. E. Björnsson
Einar Einarsson
G. O. Einarsson
Finnbogi Finnbogason
Hermann Fjeldsted
Thor. Fjeldsted
Lestrarfélagið "Fróðleikshvöt"
Böðvar H. Jakobsson
Mrs. Guðlaug Jakobsson
Helgi B. Jakobsson
Mrs. Andrea Johnson
Miss Sella Johnson
Marteinn M. Jónasson
Guðmundur Magnússon
Sr. Sigurður Ólafsson
Jóh. Pétursson
Mrs. Jóh. Pétursson
Arthur Sigurðsson
Magnús Sigurðsson
Gunnar Sæmundsson
Jakob Thorsteinsson
S. Vopnfjörð

**Árnes, Man.**

Mrs. Anna H. Helgason
Ísleifur Helgason
Mrs. Guðrún Jónsson
Ólafur Jónasson
Jónas Ólafsson

**Baldur, Man.**

J. K. Sigurðsson
Björgúlfur Sveinsson

**Benalto, Alta.**

Jóhann M. Hillman

**Calgary, Alta.**

Sigurður Sigurðsson
Jóhann Bjarnason

**Camp Morton, Man.**

Þorsteinn Sveinsson

**Cranberry Lake, B. C.**

Jón Sigurðsson

**Cypress River, Man.**

L. J. Hallgrímsson
Mrs. Guðlaug S. Frederickson
J. A. Walterson

**Edmonton, Alta.**

Mrs. G. Benedictson
S. Guðmundsson

**Elfros, Sask.**

Mrs. J. Magnús Bjarnason
Jón Jóhannesson
Axel Jónasson
J. H. Goodmundson

**Eriksdale, Man.**

Kristján Halldórsson
Ólafur Hallson

**Fawcett, Alta.**

Guðmundur Björnsson

**Flin Flon, Man.**

Ármann Björnsson

**Geysir, Man.**

Einar Benjamínsson
Timoteus Böðvarsson
Mrs. Timóteus Böðvarsson

S. P. Friðriksson
Wilhelm Pálsson
Guðmundur Pétursson
Friðrik Sigurðsson
J. G. Skúlason
V. Sigvaldason

**Gimli, Man.**

Mrs. Christiana O. L. Chiswell
Séra Bjarni A. Bjarnason
Mrs. B. A. Bjarnason
Friðfinnur Einarsson
Guðmundur Fjeldsted
Freeman Freemanson
Jón Guðmundsson
Grímur S. Grímsson
Mrs. Ásdís Hinriksson
F. B. Johnson
Baldur M. Jónasson
Ól. N. Kárdal
Lestrarfélagið "Gimli"
Mrs. Kristín Schram
Sigurður Sigurðsson
Guðni Thorsteinsson
Hjálmur Thorsteinsson
Thordur Thordarson

**Glenboro, Man.**

Guðrún Anderson
Páll A. Anderson
Mrs. P. A. Anderson
Sigurður Antoníusson
Sr. Egill H. Fáfnis
Jón Goodman
F. Frederickson
Jón Frederickson
Jón Helgason
Mrs.Kristjana Jóhannsson
Hans Jónsson
A. E. Johnson
B. S. Johnson
Mrs. C. S. Josephsson
Guðm. Lambertsen
G. J. Oleson

**Hamilton, Ont.**

Einar S. Svanbergsson

**Hayland, Man.**

Sigurður B. Helgason
Geirfinnur Pétursson

**Hecla, Man.**

G. S. Berg
Jóhannes Grímúlfsson

**Hnausa, Man.**

Gunnar Helgason
Hildibr. J. Hildibrandsson
Jón B. Snæfeld
Gestur S. Vídal
Mrs. Kristín Vídal
Sigvaldi Vídal
Miss Sigurrós Vídal

**Hodgson, Man.**

Rögnvaldur S. Vídal

**Húsavík, Man.**

W. B. Arason

**Innisfail, Alta.**

Jóhann Björnsson

**Keewatin, Ont.**

Guðjón Hermannsson
Jón Pálmason
Mrs. Sig. Sigurðsson
Bjarni Sveinsson
Mrs. Bjarni Sveinsson
Lestrarfélagið "Tilraunin"

**Lundar, Man.**

Sr. Guðmundur Árnason
Joe Breckman
Jón Einarsson
Vigfús Guttormsson
Ed. Hallsson
M. Kristjánsson
Ágúst Magnússon
A. V. Olson
Guðmundur Sigurðsson
Mrs. Ásta Sigurðsson
Grímúlfur Sigurðsson.

**Markerville, Alta.**

Mrs. Helga J. Stephanson

**Neveton, Man.**
Gestur Sigurðsson

**New Westminster, B. C.**
Loftur Goodman
S. D. B. Stephansson

**Norwood, Man.**
Magnus Peterson

**Oak View, Man.**
Sigurður Sigfússon

**Piney, Man.**
S. S. Anderson
Mrs. B. E. Björnsson
E. E. Einarsson
Kristinn Norman
B. G. Thorvaldsson

**Red Deer, Alta.**
Ófeigur Sigurðsson
Mrs. Kristín Sigurðsson

**Reykjavík, Man.**
Árni Björnsson
G. Erlendsson
Mrs. I. Gíslason
Ingim. Ólafsson
A. Paulson

**Riverton, Man.**
F. V. Benediktsson
Marinó Briem
Mrs. Guglaug Eggertsson
Mrs. G. J. Guttormsson
Jóhannes Helgason
Magnús L. Johnson
Pétur Jónsson
Mrs. Óskar Magnússon
Mrs. S. O. Thompson
Sveinn Thorvaldson
Mrs. Kristín Thorvaldson

**Saskatoon, Sask.**
Próf. T. Thorvaldson, D. Sc.

**Siglunes, Man.**
Ásmundur Freeman
Guðmundur Johnson

**Silver Bay, Man.**
Jón Björnsson

**Steep Rock, Man.**
Th. Gíslason
Guðmundur Hjartarson
F. E. Snædal

**Stettler, Alta.**
M. Steinsson

**Sylvan, P.O., Man.**
Jacob J. Líndal

**Thicket Portage, Man.**
María Baldvinsson

**Transcona, Man.**
P. S. Pétursson

**Vancouver, B. C.**
Ben. B. Bjarnason
Mrs. H. S. Le Messurier
Þórður Kr. Kristjánsson

**Victoria, B. C.**
Christian Sivertz

**Vidir, Man.**
Gunnar Einarsson
Mrs. Bjarni Björnsson
Sigurður Finnsson
Gunnlaugur Hólm
Jónas J. Jónasson
Franklin Pétursson

**Vogar, Man.**
Björn Eggertsson
Lestrarfélagið Herðubreið
Tómas Guðmundsson
Jónas Kr. Jónasson
Guðmundur Jónsson

**White Rock, B. C.**
Th. G. Ísdal

**Wilkie, Sask.**
Miss Dóra Davíðsson

**Winnipeg Beach, Man.**
Jón Kernested

**Winnipegosis, Man.**
Guðrún Friðriksson
Jón Geir Gunnarsson

**Winnipeg, Man.**
Miss Sæunn Bjarnadóttir
Dr. Ág. Blöndal, M.D.
Mrs. Jónína Christie
Hjálmur Daníelsson
Mrs. Hólmfr. Daníelsson
Séra V. J. Eylands
Mrs. Matth. Fredrickson
Mrs. Jósephína Jóhannsson
Dr. M. B. Halldórsson,
Halldór Johnson
Guðm. F. Jónasson
Björn Líndal
Magnús Markússon
Sigurður W. Melsted
B. E. Olson
Dr. B. H. Olson
Elin G. Sigurðsson
Jón Sigurðsson
Stefanía Sigurðsson
Sigurður Sölvason
Mrs. J. B. Skaptason
J. J. Swanson
G. S. Thorvaldson

**3. BANDARÍKIN**

**Akra, N. Dak.**
Ásbjörn Sturlaugsson

**Anacortis, Wash.**
Margrét J. Benedictson

**Baltimore, Md.**
Dr. Stefán Einarsson, Johns Hopkins University Library

**Bayside, Long Island, N.Y.**
E. B. Johnson

**Bellingham, Wash.**
Lestrarfélagið "Kári"
E. M. Einarsson

**Blaine, Wash.**
J. J. Bartel
Thor Björnsson
Th. Goodman
Séra H. E. Johnson
Mrs. K. F. Líndal
Mrs. Sigríður Paulson

**Bremerton, Wash.**
Sveinn Árnason

**Cavalier, N. Dak.**
Mrs. Sigríður Galbraithe

**Chicago, Ill.**
Árni Helgason
Jóh. Sveinsson, Theol. St.
C. H. Thordarson, Ph. D.

**Duluth, Minn.**
Chris Johnson
Mrs. Chris Johnson

**Edinburg, N. Dak.**
Margrét Guðmundsson



AFVEITA VIÐ POINTE DU BOIS ORKUVERIÐ

# ÖRUGT VÍGI!

Upphaflega var City Hydro stofnað til þess að lækka hið háa verð á rafafli á þeim tíma, og tryggja Winnipeg-borg nægilega framleiðslu af ódýrri raforku. . . Þrátt fyrir það er þetta ekki hið eina sem City Hydro hefir afrekað. Til dæmis, tekju afgangur hefir safnast svo fyrir, að á síðastliðnum tveimur árum hefir City Hydro greitt hálfa miljón dollara í bæjarsjóð til þess að létta á útsvari bæjarbúa. . . Fyrirtæki sem veitir slíkan arð, á skilið stuðning almennings.

# CITY HYDRO

ER YÐAR EIGN—NOTIÐ AFLIÐ ÞAÐAN

**Elmhurst, Long Island, N. Y.**
E. Grettir Eggertson

**Gloucester, Mass.**
Einar Anderson
Jónas B. Johnson

**Grafton, N. D.**
Guðjón Árman
Mrs. S. Eastman

**Grand Forks, N. Dak.**
Próf. Richard Beck, Ph.D.
Próf. G. Björn Björnsson
University Library

**Hallson, N. Dak.**
Árni J. Jóhannson
Árni Magnússon

**Huntington Park, Calif.**
Dr. Paul V. Jameson

**Ivanhoe, Minn.**
Peter H. Foss
Bjarni Guðmundsson

**Minneapolis, Minn.**
Gunnar B. Björnsson
Hjálmar Björnsson
K. Valdimar Björnsson
Theodore B. Sigurðsson

**Minneota, Minn.**
María G. Árnason
Gunnar S. Bardal
Einar Hallgrímsson
J. P. Ísfeld
Arngrímur Johnson
Joseph Josephson
Bjarni Jones
Mrs. Stefanía Johnson
Guðjón Williamson

**National City, Calif.**
John S. Laxdal

**New Ulm, Minn.**
Hon. A. B. Gíslason

**Oak Terrace, Minn.**
Miss Hermanía Björnsson

**Pt. Roberts, Wash.**
Lestrarfél. "Hafstjarnan"

**Portland, Oregon**
Guðmundur Thorsteinsson

**Poulsbo, Wash.**
Mrs. H. S. Freeman

**Rugby, N. Dak.**
Dr. E. G. Johnson

**Sacramento, Calif.**
E. M. Thorsteinsson

**Seattle, Wash.**
B. J. Einarsson

**Sherwood, N. D.**
Halldór Halldórsson

**Spanish Fork, Utah**
Mrs. I. M. Jameson
Miss Ellen Jameson

**St. Paul, Minn.**
M. A. Thorfinnsson

**Tacoma, Wash.**
Mrs. E. S. Guðmundsson
Dr. John A. Johnson
Mrs. Marshall E. Stevens




**Síðan að skólinn var stofnaður 1909 hafa yfir 4,000 Íslendingar stundað nám við kvöld- og dagskólann.**

---

Nytsemi og framför fylgjast að, og sökum þess að skólinn veitir hina beztu tilsögn, hefir hann vaxið jafnt og stöðugt og getið sér frægðarorð.

---

BYRJIÐ Á SUCCESS-NÁMI YÐAR STRAX
ÞÉR GETIÐ INNRITAST Á
HVAÐA TÍMA SEM ER

THE Success

# Business College Limited

**D. F. FERGUSON, President and Manager**

**EDMONTON BLOCK, WINNIPEG, MAN.**

**Cor. Portage Ave. and Edmonton St.** **Phone 25 843**



**Rögnvaldur Pétursson, D.D., Ph.D.**
**Fæddur 14. ágúst 1877—Dáinn 30. janúar 1940**
Forseti Þjóðræknisfélagsins
Ritstjóri Tímaritsins

# TÍMARIT

## Þjóðræknisfélags Íslendinga



TUTTUGASTI OG FYRSTI ÁRGANGUR, 1939

Ritstjóri: RÖGNVALDUR PÉTURSSON




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1940

# *Efnisyfirlit*



HIS EXCELLENCY THE RIGHT HONOURABLE
THE LORD TWEEDSMUIR, G.C.M.G., C.H.
GOVERNOR-GENERAL OF CANADA

HEIÐURS VERNDARI ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS
ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI

GOVERNMENT HOUSE,
OTTAWA.

14th September, 1939.

The Rev. Rögnv. Petursson,
45 Home Street,
Winnipeg.

Dear Mr. Petursson,

My friend Mr. Thorson has just presented me with the beautifully engraved document in which you do me the honour of giving me a place in your Icelandic League. I am very grateful to you and to your colleagues. The document will always be a cherished possession.

With all good wishes.

Yours sincerely,

Tweedsmuir

# Birnir

Eftir Guttorm J. Guttormsson

---

Skemtana minna skógarbirnir
Skæðir voru þeim gæfu kindum
Harmi og sorg á sálarlöndum,
Saklausum skepnum í frjóvum högum.

Þeim, er fyrir því sauðfé sátu,
—Samt höfðu þeir á öðru að lifa—
Myrkviðarskjól og skugga gáfu
Skrúðgrænar furur og bjarkarunnar.

Risu þeir upp á afturfótum,
Ef við fótatak nefndra kinda
Bærðist lyng eða lauf á anga;
Löngum höfðu þeir af þeim veðrið.

Nær þeir bráðina hugðust hremma,
Hvoftar opnuðust, skinu tennur,
Klærnar spruttu' út úr loðnum leistum,
Lengdust fram, er þeir tóku stökkið.—

Langt og vítt, þegar leið á sumar,
Leituðu þeir inn um skóg að höllu
Tré, sem hafði' upp með rótum rifnað,
Reist upp svörðinn, svo holt var undir.

Þangað komu þeir heim að hausti
Hárprúðir, svartir, með gulbleik trýnin,
Gljáandi, þvalan þykkan feldinn,
Þverhandar spik á hvorri síðu.

— — — — —

Skemtana minna skógarbirnir
Skríða nú undir rætur trésins,
Setjast þar að og sjúga hramminn,
Sofandi út minn lífsins vetur.

Bregðist mér von um að vori snemma,
Vakna munu þeir aldrei framar;
Hafa þá einir sig erft og jarðað,
Á sér sjálfum í hel sig lifað.

# Frá þeim yngri

**Yfirlit yfir íslenzk sagna- og leikritaskáld síðasta áratuginn (1928—1938).**

Eftir Dr. Stefán Einarsson

Þeir eru ekki svo fáir, rithöfundarnir, sem komið hafa fram á sjónarsvið ritvallarins síðustu tíu árin með smásögur, skáldsögur eða leikrit. Og af því að það er víst, að úr þessum nýgræðingi verða að spretta tré þau, er rísi yfir kjarrið næstu tíu til tuttugu árin, þá er mjög gaman að virða hina nýju höfunda fyrir sér, ef vera mætti, að hægt væri að spá í eyður framtíðarinnar, eftir því sem þegar liggur eftir þá.

Þó er óhætt að fullyrða að enginn þessara nýju höfunda hafi skrifað þær bækur, sem teljast mega merkustu nýjungarnar í bókmentunum á þessum tíma. Við því var heldur ekki að búast. Það eru eldri og miðaldra skáldin sem skrifa þessar bækur sem verða merkivörður á leið bókmentanna. Kamban skrifar **Skálholt** 1930-32, Laxness: **Þú vínviður hreini** 1931 og **Sjálfstætt fólk** 1934, Hagalín: **Kristrúnu í Hamravík** 1935 og **Sturlu í Vogum** 1938, Hulda **Dalafólk** 1936 og Kristmann Guðmundsson **Gyðjan og uxinn** 1937. Hér ætti líka við að nefna hinar merku ræður G. Finnbogasonar: **Mannfagnaður** 1937.

En yngri mennirnir hafa þó skrifað bækur sem styr hefir staðið um, þótt eigi hafi þær náð há-marki, — kannske ekki einu sinni lágmarki, — listarinnar. Má hér til nefna hina stórgölluðu bók Jóhannesar frá Kötlum **Og björgin klofnuðu** 1934 og **Brennandi skip** Gunnars M. Magnúss 1935, sem að vísu er langt um galla-minni en hin fyrnefnda. En báðar hafa þær það sameiginlegt, að það er í þeim veðra-þytur sterkrar stefnu, og stefnan gefur þeim lífsgildi, þótt hún hafi kannske í öðru svift þær listargildi, eða réttara sagt, þótt höfunda hafi brostið listartök til að klæða hana holdi. Annars er Jóhannesi frá Kötlum óhætt að syndga í óbundnu máli, svo fastur er hann í söðli skáldfáksins í kvæðum sínum.

Annars minnir dæmi Jóhannesar frá Kötlum á fleiri eldri höfunda, sem fyrst hafa komið fram sem smásagna, skáldsagna eða leikritaskáld á tímabilinu, þótt þeir hafi fengist við skáldskap í annari mynd áður.

Þannig hefir Jakob Thorarensen skrifað tvö smásagnasöfn **Fleygar stundir** 1929 og **Sæld og syndir** 1937, er sýna að honum er ekki síður lagin raunsæ sagnalist en ljóðagerð. Eru sumar sögurnar með því sniðugasta og fyndnasta, sem í þeirri grein hefir verið skrifað á íslenzku. Hulda hefir skrifað sína fyrstu stóru skáldsögu **Dalafólk** I. 1936, um sveitarhöfðingja, ættstóra og draumgefna, um ástir, æfintýri og fegurð. Og fyrverandi ráðherra íslands, o. fl., o. fl. Sigurður Eggerz ber nú í fyrsta sinn fórnir á altari skáldgyðjunnar í ræðum, skissum,

greinum, kvæðum og leikritum (**Sýnir** 1934, **Það logar yfir jöklinum** 1937, og **Líkkistusmiðurinn** 1938). Nöfnin sýna að hann er fullur af hinum stóru hugsjónum og hinum enn stærri ástríðum Hafnarskáldanna frá 1912. Þá hefir Guðbrandur Jónsson prófessor sent frá sér smásögusafnið **Moldin kallar** 1932 og allmörg söfn af greinum og fyrirlestrum, auk fræðibóka, og hafa bækur hans að verðleikum náð mikilli hylli fyrir lipurð í stíl og fyndni. Og loks hefir Lárus Sigurbjörnsson sýnt að hann er ekki síður leikritaskáld en smásagna. Eru til vitnis um það **Þrír þættir** 1930 og **Stóri foss strandar** (í **Borgin** 1933).

Af eldri mönnum, sem fram hafa komið á tímabilinu með rit sín er fyrst og fremst að minnast Vestur-íslendinganna. Í safnritinu **Vestan um haf** 1930 var íslendingum austan hafs fyrst sett fyrir sjónir auðlegð bókmentamannanna vestan hafsins. Ennfremur má segja að saga Vestur-íslendinga hafi fyrst orðið kunn almenningi með hinum merku útvarpsfyrirlestrum Þorsteins Þ. Þorsteinssonar: **Vestmenn** 1935. Loks er aðdraganda vesturferðanna hvergi betur lýst en í **Æfintýrinu frá íslandi til Brazilíu** 1937-8. Annars hafa þessir Vestur-íslendingar komið fram með fyrstu bækur sínar í óbundnu máli á tímabilinu: Guttormur J. Guttormsson með **Tíu leikrit** 1930, Þorst. Þ. Þorsteinsson með **Kossa** 1934, Guðrún H. Finnsdóttir með **Hillingalönd** 1938, og Rannveig K. G. Sigbjörnsson með **Þráðarspotta** 1937. Um allar þessa höfunda, nema Rannveigu má vísa til upplýsinga í **Vestan um haf.** Rannveig Kristín Guðmundsdóttir er fædd 2. des. 1880 á Árbæ í Bolungarvík, af fátæku alþýðufólki komin. En hún var námfús og framgjörn og komst um síðir á Kvennaskólann í Reykjavík. Þá brugðu veikindi fyrir hana fæti, og 1902 fór hún alfarin til Ameríku. Eftir nokkur náms og vinnu ár giftist hún og settist að í Leslie, Saskatchewan. Húsmóðurstörf og veikindi gátu samt ekki meinað henni að skrifa smásögur og blaðagreinir. En það var ekki fyr en í **Þráðarspottum** að hún réðst í að safna þessum smásögum til útgáfu. Margt er vel um þessa bók hennar, ekki aðeins lífsskoðunin, sem stendur á gömlum merg og minnir á þær Ólafíu Jóhannsdóttur og Guðrúnu Lárusdóttur, heldur einnig sögustíllinn með vestfirzku bragði. Síðasta sagan "Hávamál á Vöðum" er prýðilega gerð smásaga.

Eins og kunnugt er, segja þau Þorsteinn og Guðrún frábærlega vel smásögur, ekki sízt Guðrún. Þó er frumleikablær enn meiri á leikritum Guttorms J. Guttormssonar. Og þó að tæplega sé að vænta áhrifa frá honum í framtíðinni, — hann hefir þegar haft áhrif á Jóhannes J. Pálsson lækni, — þá hefir hann lagt einkennilegan skerf til íslenzkra bókmenta með þessum hugmyndaríku og kynlega bygðu leikritum sínum.

Af eldri mönnum heima á íslandi, sem ekki höfðu prentað bækur fyr en á þessu tímabili skal Jónas Rafnar nefndur. Hann er sonur hins góðkunna fræðimanns og skálds séra Jónasar Jónassonar, fæddur að Espihóli, Eyjafirði 9. febr. 1887. Eftir

nám hjá föður sínum, í Askov, á Lærða skólanum, (stúd. 1909) og Háskólanum í Reykjavík, tók Rafnar embættispróf í læknisfræði 1914 og var settur héraðslæknir austur á Síðu. Þar skrifaði hann fyrstu smásögu sína "Talað á milli hjóna", sem kom í **Skírni** 1915. Eftir þetta var Rafnar læknir í Danmörku, á Eyrarbakka og á Akureyri uns hann tók við berklahælinu í Kristnesi haustið 1927 þar sem hann hefir verið síðan. Hann hefir skrifað allmargar smásögur fyrir **Nýjar kvöldvökur,** en 1929 kom út sagan **Gestur,** síðan **Staksteinar** 1930, **Þegar hænur gala** og **Hunde bades** 1933, **Þáttur af Halli harða,** saga frá 17. öld 1936.

Jónasi Rafnari svipar í mörgu til föður síns, hann er raunsæismaður, eins og faðir hans, en laus við vandlætingu hans. Sögur hans eru flestar kýmnissögur, langar, þurrar skrítlur, sagðar til að stytta mönnum stundir. Efnisvalið er líka svipað: sveitasögur frá þeirri gömlu góðu tíð, ósnortnar af nútímahyggju og borgarabrag. Í þessu eru þær mjög frábrugðnar smásögum Jakobs Thorarensen, sem fullar eru af nýtízku og borgarabrag.

Þá er loks komið að hinum yngri og yngstu.

Gunnar M. Magnúss kemur fram á ritvöllinn 1928 með smásagnasafninu Fiðrildi. Síðan hafa komið frá penna hans fjórar barnabækur: **Brekkur** (smásögur og leikrit) 1931, **Börnin frá Víðigerði** 1933 og áframhald þeirra **Við skulum halda á Skaga** 1934, **Suður heiðar** 1937 og loks skáldsagan **Brennandi skip** 1935.

Gunnar er fæddur 1898 á Flateyri í Önundarfirði af sunnlenzkum foreldrum; hann er bróðursonur Ólafs í Þjórsártúni. Hann hefir kennaraskólamentun (1925-27), en hefir síðan fengist við margvísleg störf með hönd og heila.

Smásagnasafnið var ekki ólaglegt af byrjanda. Þar kendi áhrifa frá Hagalín í sjóferðasögunum og frá spiritisma Kvarans. Í ástarsögunum kendi bæði rómantíkur og realisma. Höfundurinn var sýnilega óráðinn. Með barnasögum sínum hefir hann aftur á móti náð allmikilli hylli, enda eru þær fjörlegar og vel við drengja hæfi, fullnægja bæði æfintýra-þrá og starfslöngun strákanna, ekki sízt hin síðasta.

Það er eiginlega bara með bókinni **Brennandi skip,** að höfundur hefir stefnt að því að skrifa fullburða verk fyrir fullorðna menn. Verður ekki annað sagt en að honum hafi tekist það sæmilega, þó ekki nái bók hans að jafnast á við bestu skáldsögur íslenzkar á sama tíma. Lýsingarnar á sálarlífi drengsins, sem er uppalinn í bakhúsi í Reykjavík, eru mjög góðar. Sjónarmið sósíalismans er auðsætt í bókinni, en það er ekki ófrumlegur endir, að láta fjölskylduna flytja úr borginni norður á firði í sjávarþorp. Manni verður það á að spyrja hvort lýsingar á atorku- og framtakssömu lífi mundi ekki láta höfundi betur en ádeilan, — einkum eftir að maður hefir lesið síðustu barnasögu hans **Suður heiðar.**

Þegar **Björn formaður** eftir Davíð Þorvaldsson kom út 1929 skrifaði Guðmundur Friðjónsson, að þótt finna mætti að ýmsu í bókinni, þá

væri þarna þó "stjarna út við sjóndeildarhringinn sem annað hvort gengur undir fljótt eða hækkar. Hún hækkar, ef maðurinn lifir." En Davíð varð skammlífur.

Hann var fæddur 3. júlí 1901 á Akureyri. Ungur misti hann föður sinn, Þorvald Davíðsson kaupmann. Hann var þó settur til menta, varð stúdent 1925 og fór þá til Khafnar að lesa jarðfræði. Ári síðar fór hann til Sorbonne í París til að halda áfram námi, en þar tók berklaveikin hann. Kom hann heim heilsulaus 1929 og var heima við misjafna heilsu þar til hann lézt af uppskurði 3. júlí 1932.

Þrátt fyrir heilsubrest sinn náði Davíð að skrifa tvö smásagnasöfn **Björn formann** 1929 og **Kalviði** 1930.

Í grein sem Davíð skrifaði í **Ganglera** 1929 um Romain Rolland lýsti hann því yfir að þessum merka franska höfundi ætti hann meira að þakka en nokkrum öðrum.

Davíð lýsir sálarlífi manna, einkum olnbogabarna lífsins, einstæðinga, og sjúklinga. Það var eigi undarlegt þar sem hann sjálfur hafði dauðann á næsta leiti. Það var heldur ekki að furða þótt viðkvæmni gætti meir en karlmensku í sögum hans. Ekki verður heldur sagt að hann hafi skrifað neitt, sem frábært væri að listargildi. En það munu vinir hans hafa séð rétt, að í honum var meira skáld en í flestum öðrum jafnaldra hans.

Árið 1929 kom út einkennileg kvæðabók, **Mansöngvar til miðalda**, eftir Jóhann Frímann Guðmundsson. Síðar komu **Nökkvar og ný skip** 1934, önnur kvæðabók, og **Fróðá**, sjónleikur í fjórum þáttum 1938. Var það leikið á annan í jólum það ár af Leikfélagi Reykjavíkur, og gekk fram eftir vetri.

Jóhann Frímann Guðmundsson er fæddur 27. nóv. 1906 að Hvammi í Langadal. Hann tók gagnfræðapróf á Akureyri vorið 1923, en fluttist á næstu árum út í lönd: Khöfn og Askov 1925-26, klaustrið í Clairvaux, þar sem Laxness sat, 1926, Stavanger 1926, Rvík, Akureyri 1927, Sevastopol 1933! Manni gæti komið til hugar, að hann hafi verið að elta Laxness, enda virðist hann hafa fengið aðkenningu af kaþólsku í klaustrinu góða; þess kennir í hinni fyrstu bók hans, sem er um "fjarska þann, er skilur hreinar og óhreinar ástir." En þessir "mansöngvar" snúa andliti sínu til miðalda, og Jóhann er ólíkur öllum að því, hve einhuga hann horfir í þá átt í kvæðum sínum — og leikriti. Annars virðist mér leikriti hans um Þórodd skattkaupanda og Þuríði á Fróðá helst kippa í kyn til leikrita þeirra Davíðs Stefánssonar (**Munkarnir á Möðruvöllum**) og A. G. Þormars (**Dómar**). Sem stendur er ómögulegt að segja hvað úr þessum rómantíska höfundi kann að verða.

Á því merkilega herrans ári 1930 kom út í Berlín smásagnasafn á íslenzku, sem bar hið yfirlætislausa nafn: **Í fáum dráttum.** Höfundurinn var Halldór Stefánsson, bankamaður í fríi suður í Berlín. Sögurnar höfðu jafnframt komið út í þýðingum í þýzkum blöðum.

Halldór Stefánsson er fæddur 1. desember 1892 í Kóreksstaðagerði í Hjaltastaðaþinghá. Var faðir hans Stefán Stefánsson, síðan um langt skeið póstafgreiðslumaður og síma-

stjóri á Eskifirði, og þar mun Halldór hafa alist upp. Hann lærði prentiðn, en fékst síðan við símagæslu, verzlun og bankastörf. Nokkrar smásögur og kvæði í tímaritum ("Hjálp", Eimr. 1921, "Fjallvísur" Iðunn 1923) vöktu enga athygli. Því meir tóku menn eftir bókinni **Í fáum dráttum.**[1]

Raunar mun Halldór hafa átt það að þakka hinni sósíalistisku stefnu sinni, að flokksbræður hans gerðu svo mikið úr þessu fyrsta riti hans. Stefnan lýsti sér í samúð hans með smælingjum, hatri á kaupmanninum og kaldhæðni, sem minti á Gest Pálsson. Hún var kannske skýrust í sögunni "Nýmálað". Hann var þar nokkuð fálmandi í efnisvali, og eigi allfáar af sögunum gerðu meira að "leitinni á sálarsviðinu" er einkendi tímann á undan, heldur en úr sjónarmiði öreiganna. Vott um þetta ber hinn einkennilegi sjómaður í "Rún", mótaður af landsháttum og æfikjörum, "Valvan", sprottin úr austfirzku hrika-umhverfi og austfirzkri þoku, og síðast en ekki sízt "Dulmögn", þar sem sjálfur frum-maðurinn stingur fram hófnum. Í "Hrotur" verða huldir sálarkraftar manni að bana. En það sem gaf bókinni gildi var tilraun sú, er þar var gerð með nýjan stuttorðan stíl. Að sú tilraun var gerð viljandi sýnir nafn bókarinnar.

Þessi stíll er orðinn miklu markvissari í síðari bók Halldórs **Dauðinn á þriðju hæð** 1935. Jafnframt er efnisvalið orðið fast: Halldór lýsir nú mönnum og dýrum í hinu kaldræna umhverfi borgarinnar. Loks er hér á ferð alveg nýr stíll í bygg-ingarlist smásögunnar, eins og sjá má af fyrstu sögunni, sem bókin er nefnd eftir. Örvæntingarfullur öreigi kemur utan úr grárri morgunskímu vetrardagsins, gengur upp á þriðju hæð hússins og hengir sig úti fyrir húsdyrunum sínum. Þetta er Grand Hótel saga Vicki Baum en miniature og prýðilega gerð.

Það er ekki mikið að vöxtum sem liggur eftir Halldór auk þess sem hér er talið. Fáeinar sögur í **Iðunni** og **Rétti.** En hinn sérkennilegi stíll hans markar honum bás einum sér meðal höfunda tímabilsins.

Tveim árum eftir að **Í fáum dráttum** kom út, kom **Bárujárn** (1932) smásagnasafn eftir Sigurð B. Gröndal. Hann hafði að vísu fyr gefið út kvæðasafn **Glettur** 1929, mest stemmingar eftir tískunni frá 1920. Og síðan hefir hann gefið út smásagnasafnið **Opnir gluggar** 1935.

Sigurður B. Gröndal er fæddur 1904[1] og hefir unnið fyrir sér sem þjónn bæði á millilandaskipum og í veitingasölum. Sjómenskuna má lesa út úr sumum kvæðum hans og sögum.

Hann byrjar, sem sagt, eftir hinni lýrísku tísku frá 1920, en um 1928 fer að heyrast ádeilutónn hjá honum, miðstéttin reykvíkska er skopteiknuð ,en tekið svari olnbogabarna þjóðfélagsins, skækna, götustráka og stéttvísra verkamanna. Hann er orðinn sósíalisti. En það er lítið bragð að sögum hans. Hann bregður fyrir sig skopmyndagerð (parodiu burleskum) ; hún liggur í

1) Sjá annars um hann "Skáld á leið til sósíalismans" eftir Einar Olgeirsson, **Rétti** 1932, XVII: 95—116.

1) Sjá **Rétt** 1932, XVII: 95—116.

ættinni og kynni að þroskast með aldrinum, ef hann legði rækt við hana. Síðasta bók S. B. Gröndals er kvæði: **Skriftir heiðingjans** 1938.

Sama árið og Sigurður B. Gröndal kemur nafni hans, Sigurður Helgason fram á sjónarsviðið með smásagnabókina **Svipir.** Það eru átta smásögur, hin fyrsta hafði birzt í **Eimreiðinni** 1926 og var skrifuð á Eiðum árið áður. Höfundurinn er sýnilega austfirðingur, kunnugur á Héraði, Seyðisfirði og víkunum þar norður undan, en eg hef ekki náð í upplýsingar um hann. Af myndum að dæma virðist hann vera nálægt fertugu.

Hinar fyrstu sögur hans voru fremur bragðdaufar. En síðan hefir hann skrifað tvær bækur: **Ber er hver að baki** 1936 og **Og árin líða** 1938 (þrjár sögur), sem eru mjög sæmilegar, þótt ekki beri þær af enn sem komið er. Sigurður er raunsæismaður. Hann tekur sárt til fátæklinganna á austfirzku andnesjunum, og lýsir lífsbaráttu þeirra af trúmensku við sannleikann. Þó verður ekki sagt að hann sé bölsýnn; hann mun vera snortinn af mannúð Einars H. Kvaran, enda hefir lífið kannske kent honum að þau sárin, sem beiskast svíða í bili, eru ekki ávalt ólæknandi. Einn af beztu kostum Sigurðar er hinn einfaldi tilgerðarlausi stíll hans.

Árið 1933 komu **Dætur Reykjavíkur** I. Sögur eftir Þórunni Magnúsdóttur. Þetta voru smásögur. En svo komu **Dætur Reykjavíkur** II: **Vorið hlær,** fyrri hluti 1934 og **Dætur Reykjavíkur** III. **Vorið hlær,** síðari hluti 1938. Og loks **Að sólbakka** 1937 og **Líf annara** 1938.

"Dætur Reykjavíkur" minna mann ósjálfrátt á "Reykjavíkurstúlku" Kambans og **Þrítugustu kynslóðina** hans. Var það svo að Reykjavíkurstúlkan hefði fengið málið sjálf? Svo var að sjá, einkum á sögu stallsystranna í **Vorið hlær.** Sú sem söguna segir er hámódern, ætlar sér að verða rithöfundur og hvað eina. Og vor-lífinu er lýst á þessu hispurslausa, hálfglannalega, hálf-naiva máli, sem einkennir Reykjavíkur stúlkurnar, að minsta kosti meðan þær eru á silkisokka-árunum. Stjórnmál og stefnur koma þarna ekki til greina, nema sem óraunsær heimur bak við veruleikann, hvers yfirborð er kvenleg snyrting, böll, bíltúrar og útilegur, en hvers kjarni er ástin og gamaldags staðfesta í skapgerðunum, þrátt fyrir yfirborðs flausturshátt nútíðarinnar.

Þórunn Magnúsdóttir er að vísu fædd í Reykjavík 20. júlí 1910 af borgfirzkum foreldrum, en hún ólst upp í norðlenzkri sveit, lengst í Klifhaga, Öxarfirði (1918-24). Þar misti hún heilsuna, og lítið bætti það úr skák þótt fósturforeldrar hennar flyttu til Reykjavíkur. Fátækt og heilsuleysi virðist hafa verið hlutskifti hennar lengst af, að undanteknu einu brosandi ári sem hún átti í Noregi (1935). Ef til vill er það einmitt þess vegna að **Dætur Reykjavíkur** baða í ljósi vorsins og hafa hrossheilsu æskunnar.

En besta bók hennar, **Að Sólbakka** er sveita-saga, eða réttara, saga föðurlausrar telpu sem elst upp á sveit, lendir þegnsamlegast í öllum þeim raunum, sem slíkrar

stúlku-kindar kunna að bíða, en rífur sig þó út úr því að lokum með heiðri og sóma. Það er góðs viti að Þórunn hefir skrifað þessa sögu svo að hvergi minnir á Sölku-Völku H. K. Laxness, jafn-lík og örlög þeirra eru. Eg sé ekki betur en að með henni hafi hún tekið sér sæti á bekk þeirra yngri höfunda, sem einhvers má af vænta í framtíðinni, — ef hún heldur heilsunni.

Þó margt sé vel um síðustu bók Þórunnar, **Líf annara**, virðist mér hún ekki komast til jafns við **Að Sólbakka**. Ef til vill er það því að kenna, að bygging hennar er lausari fyrir, heildarsvipurinn ekki ákveðinn. Annars er sú bók um einstaklinga gegn almenningsálitinu í íslenzku þorpi.

Sama árið og Þórunn Magnúsdóttir sendi frá sér **Dætur Reykjavíkur** kom út lítil ljóðabók, **Þakkir**, eftir aðra Reykjavíkur dóttur: Rósu B. Blöndals. Hún er fædd í Reykjavík 20. júlí 1913. Faðir hennar var löggæslumaður þar, en að einhverju leiti hefir hún þó alist upp í sveit, eins og sjá má af kvæðum hennar. Á kennaraskólann gekk hún (1932-34), tók gott próf og er nú gift kenslukona í Reykjavík.

Það er ljóðrænt vorveður í ljóðakveri hennar, hún fagnar æskunni, þakkar daga hennar, sem hún veit að ekki koma aftur. Vikivakar og fornkvæði eru þar og, enda er konan sýnilega rómantísk að upplagi. Þetta kemur enn berar fram í skáldsögunni **Lífið er leikur** 1938, sem telja má ágæta byrjendabók. Hún er um stallsystur sem leggja upp í lífið, leikandi við hvern sinn fingur, en komast áður en varir í öngþveiti ásta og sjúkdóma. Það tekst ekki betur en svo, að þær unna sama manni báðar, en hitt er þó verra að þessum manni er enginn fiskur um hrygg vaxinn. Hann kann ekki að velja, tekur fyrst þessa og síðan hina, sem hann bregst hryggilega að lokum dauðvona á berklahæli. En þrátt fyrir "sorgirnar þungar sem blý", andar bókin ljóðrænni æsku og björtum vonum um líf og fagran leik. Stíllinn er ljóðrænn, fellur vel að efninu, og er merkilega persónulegur hjá ekki eldri höfundi.

Sama árið og þær Þórunn Magnúsdóttir og Rósa B. Blöndals komast á prent komu líka út **Kvæði** eftir Guðmund Daníelsson frá Guttormshaga. Þau vöktu ekki mikla athygli, en voru þó talin þess verð að berast saman við **Fagra jörð** eftir Tómás Guðmundsson, sem dæmi upp á ljóð sveitamanns, sem enn hefir ekki fundið sjálfan sig á braut hins eina sáluhjálplega sósíalisma. En brátt sýndi Guðmundur að hann hafði byrgði gnóga þar sem aðrir höfðu ekki krepping fullan, jafnvel þótt á skorti jafnaðarmenskuna. Þetta fundu menn er menn lásu **Bræðurnir í Grashaga** 1935 og framhaldið **Ilm daganna** 1936.

Guðmundur Daníelsson er fæddur í Guttormshaga í Holtum 4. okt. 1910, elsti sonur efnahjóna, sem þar búa. Guðmundur fór fyrst á Laugarvatnsskólann, síðar á Kennaraskólann, útskrifaðist þaðan eftir tveggja ára nám 1934. Fór utan (Norðurlönd, Þýzkaland og England) sumarið 1936, en hefir annars stundað barna-kenslu á vetrum í sveit, en útiverk á sumrum.

Kvæði Guðmundar bergmáluðu

nokkuð af Davíð Stefánssyni, Þorbergi Þórðarsyni og Laxness. Þau voru full af vorstemningu, útþrá og fyrirheitum um frægðarferil, þótt hann ætti að kosta svartar syndir. En í raun og veru var ekkert á þeim að hafa um höfundinn.

Öðruvísi brá þegar **Bræðurnir í Grashaga** komu út. — Sigurður Einarsson, sunnlendingur, kvað bókina með ólíkindum vel skrifaða af byrjanda. Stíllinn væri sjálfstæður og frásögnin svo breið, að maður fengi einhvernvegin alla bygðina með. "Í fyrsta sinn stígur Suðurlandsundirlendið fram í skáldsögu."[1] Þetta var orð og að sönnu. Þessi bók um ástir og fórnir þeirra bræðra er fyllri af grósku en nokkur önnur byrjendabók síðan á dögum þeirra Hafnarskáldanna. Að vísu hefir höfundur lært bæði af Hagalín og einkum af H. K. Laxness bæði í orðfæri og stíl, — nema svo sé að þeir Laxness skrifi það sem kalla mætti Sunnlenzku, en á því hef eg minni trú, enda hafa góðir Sunnlendingar fullyrt að svo sé ekki. Ekki vantar heldur í bókina hina kaldrænu samúð með lítilmagnanum og manninum, sem ávalt á þá höndina sem gefur, en þiggur aldrei. Vera má og að af þeim orsökum sé illmenni bókarinnar teiknuð svartar, en annars mundi. En eiginlega er þó langt frá því að Guðmundur eigi hinar miskunarlausu áróðurs-ýkjur Laxness. Miklu líkari virðist sagan vera því, að hún hefði verið skrifuð til að létta áhrifa-magni umhverfisins af höfundi, eins og **Saga Borgarættarinnar**. En aftur ber þar að sama brunni, að höfundur mundi varla hafa getað skrifað svo um héraðið sitt, ef Laxness hefði ekki verið búinn að sýna honum hvernig umhverfið var, — frá fjarlægu sjónarmiði.

Fyrri bókin gerist uppi í Grashaga, þar sem tvinnuð eru örlög bræðranna og kaupakonu og dóttur hennar, hin síðari gerist í Ósahverfinu, sem minnir á Þykkvabæinn, þar sem betri bróðirinn gengur þyrnibraut sína á enda, en (fóstur) sonur hans vex upp. — Sagan tekur þennan fósturson síðar í æfintýraför út í eyjar, og skilar honum loks upp í Grashaga til hins virðulega föður (bróður) síns. Framhaldið er ókomið, — og kemur sennilega aldrei.

Síðasta bók Guðm. Daníelssonar frá Guttormshaga ber nafnið **Gegn um lystigarðinn** (1938, skrifuð 1936). Það er sagan af uppreisn Hrafns Hallssonar "móti tregðu og hversdagsleika lífsins. Hann var gæddur of miklum þrótti til þess að ganga hlýðinn og auðsveipur undir ok feðra sinna og alt það gamla, sem hann hataði, en skorti þó nokkuð á til þess að ganga sigrandi inn á nýjar brautir. . . . Hann var barn hinnar meyru moldar og sólþyrsta gróðurs og þreifst því ekki meðal hugsjóna og baráttu-bræðra sinna í grýttum jarðvegi borgarinnar. Þeir voru eyðimerkurjurtir, sem varðveittu safa sinn og mýkt í þurru spottsku hýði, sem reif ef við það var komið. Hefði hann aðeins átt seigju þeirra, . . . hefði hann vafalaust náð sínu marki." Þetta er í stuttu máli saga skáldsins, hins íslenzka skálds sem beinir vængi hátt,

---

1) Alþbl. 25. sept. 1935.

en missir flugsins þegar lífið leggur honum fjötur um fót, og forpokast sem sveita-maður. Þessa forpokun má að vísu sjá frá alt öðru og glæsilegra sjónarmiði, sjónarmiði Hamsuns í **Gróður jarðar.** En höfundur hefir a. m. k. ekki tileinkað sér það sjónarmið, þótt hann á hinn bóginn virðist jafnlangt frá því að dæma söguhetju sína frá hinu stéttvísa sjónarmiði öreigaskáldanna. Yfirleitt er þetta mjög hlutlaus saga, og virðist því sanna grun þann er öreigaskáldið Jóhannes frá Kötlum hafði um hið upprennandi skáld, að hann myndi nokkuð laus í fylkingu. Þrátt fyrir það er sagan tvímælalaust framför, sjónarmiðið er sjálfstæðara, stíllinn persónulegri. Annars verður fróðlegt að sjá hvernig Guðmundur vex á næstu árum. — Hann hefir numið hinn kaldhæðna ádeilustíl af Laxness, en fari svo, að hann komist ekki undir lag með þeim öreiga-höfundunum, þá hlýtur hann að breyta um stíl.

Árið eftir **Kvæði** Guðmundar Daníelssonar komu **Tindar** eftir Þorstein Jósepsson, ekki ómerkileg byrjandabók (1934).

Þorsteinn Jósepsson er fæddur 18. júlí 1907 á Signýjarstöðum í Hálsasveit Borgarfirði, þar ólst hann upp hjá foreldrum sínum og þar á hann enn heima. Skólamentun hlaut hann ekki aðra en fyrsta bekkjar nám í Mentaskólanum (1920-21). En hann fór utan til Þýzkalands (Províslands) og Sviss 1929 og aftur 1933, til Sviss, þar sem hann las þýzkar bókmentir við háskólann í Zurich. Frá þessum utanferðum hefir hann sagt í frábærlega fjörlegri ferðabók **Æfintýri förusveins** 1935. Sumarið 1936 fór hann með íslenzka flokknum til Ólympíuleikanna í Berlín, því hann hafði fyrr á árum tekið allmikinn þátt í íslenzku íþróttalífi. Árið eftir kom svo ferðabókin **Undir suðrænni sól** (1937).

Áhugi Þorsteins Jósepssonar á bókmentum vaknaði, er hann las Victor Hugo (1929). En sá maðurinn sem dýpst áhrif hafði á hann var Nietzsche. Þessa gætir í **Tindum,** sem er óvenjuleg bók eigi aðeins fyrir þann ofsa tilfinninganna, er þar brýst fram, heldur einnig fyrir dirfsku heimspeki þeirrar er hún boðar. Það er heimspekin um takmarkalausa fórnarlund konunnar, og sífelda tindsækni mannsins. Þessi heimspeki er boðuð í sköpunarsögunni "Tindar", sem bókin hefst á. Ekkert má hefta för hins brattgenga manns, svo framarlega sem leiðin er í samræmi við hið insta eðli hans, annars getur illa farið ("Haust", "Valshengjan"). Ekki verður það sagt að Þorsteini hafi tekist að klæða boðskap sinn í sígildan búning í þessum fáu smásögum. Enn spáir bókin honum margri Valshengjunni, og klífi hann þær, er ekki víst nema hann komist upp á hæsta tindinn.

Árið 1934 var veltiár í bókmentunum. Auk **Tinda** komu þá **Og björgin klofnuðu** eftir Jóhannes frá Kötlum, **Sýnir** eftir Sigurð Eggerz, **Lassarónar,** skemtileg sjóarabók, eftir Sigurð Haralz, **Kossar** eftir Þ. Þ. Þ., **Strákarnir sem struku,** barnabók eftir Böðvar frá Hnífsdal og **Við Álftavatn,** barnabók eftir Ólaf Jóhann Sigurðsson. Í Osló kom **Höit flyver ravnen. Roman,** eftir Snorra Hjartarson.

Ef til vill voru **Lassarónar** skemtilegasta bók ársins. Höfundurinn, Sigurður Haralz, sonur sr. Haralds Níelssonar (f. 1901) tekur hér upp þann góða sið, sem ýmsir Íslendingar frá Jóni Indíafara til Sveinbjarnar Egilssonar hafa æft: að segja frá æfintýrum sínum á einföldu máli. Æfintýri farmanna þurfi engra listarbragða til þess að vera skemtileg. Síðan hefir Sigurður bætt annari bók við (**Emigrantar** 1936) og skrifað nokkrar sögur fyrir blöðin.

Barnabókin **Við Álftavatn** vakti líka talsverða athygli. Ekki sízt af því að höfundurinn var svo ungur (15 ára) og stórhuga. Hann var ákveðinn í að verða rithöfundur. Næsta ár kom svo barnabókin **Um sumarkvöld** með smásögum (1935). Og loks 1936 kom fyrsta skáldsagan **Skuggarnir af bænum**. Um söguna segir höfundur í viðtali við **Alþýðublaðið** 15. marz 1936: "Eg ætla mér að skapa persónu, sem elst upp við þær breytingar sem eru og hafa verið á undanförnum 30 árum, lýsa nákvæmlega hvernig persónan skapast upp úr þeim andstæðum sem hún hefir átt við að búa í erfiði sveitalífsins og sambandi hennar við náttúruna. Skýra hvernig söguhetjan býr að æskuáhrifunum og hvernig þau setja svip á hana. Þetta er sveitadrengur, sem lendir 10 ára gamall á flæking, er heimilið flosnar upp. Lýsi draumum og vonum drengsins vetur og vor. Læt hann vera í sveit til þrítugsaldurs; er hann fer til Reykjavíkur. Þar lýkur fyrsta hluta."

Í raun og veru nær sagan ekki alveg svona langt. Hún er bara tveir fyrstu áfangarnir af æfi kotungssonarins: heima í kotinu og í fyrstu vistinni, þar til hann gengur úr henni.

Eins og vænta mátti, ber sagan miklar menjar Laxness bæði um sjónarmið og byggingu. Faðir drengsins er í ætt við Bjart á Sumarhúsum. Hreppstjórinn minnir á embættisbróður sinn í **Sjálfstæðu fólki**. Og móðir drengsins, sem séð hefir betri daga hjá frú Guðrúnu, prestskonu, minnir á konu Bjarts, sem ekki kunni aðferðum kotbúskaparins. Málfarið og blærinn alt minnir á Laxness. Og aftur getur manni dottið í hug, hvort hér sé sunnlenzka á ferðinni. En hvað sem þessu líður þá er sagan vel sögð, svo vel að Laxness sjálfur hefði vrala gert betur. Þetta gefur góðar vonir um að Ólafur verði ágætur rithöfundur þegar honum vex þroski og fiskur um hrygg. Og um jafnungan mann er engin ástæða til að efast.

Ólafur er fæddur 26. sept. 1918, og uppalinn að Torfastöðum í Grafningi. Þaðan er útsýn til Álftavatns, er hann skrifaði um fyrstu sögu sína er á prent kom. (Fyrstu söguna segist hann hafa skrifað 7 ára, eins og flestir góðir höfundar hafa gert). Um skólagöngu Ólafs er mér alt ókunnugt. Veturinn 1936-37 fór hann utan til Danmerkur.

Það er enginn efi á því, að þeir sunnlendingarnir Guðmundur Daníelsson og Ólafur Jóh. Sigurðsson eru framtíðar mennirnir í íslenzkum bókmentum ef þeir lifa. En framtíðin ein getur leitt í ljós hvernig þeir þroskast. Báðir standa þeir á herðum Laxness, báðir skrifa ádeilur á ástandið eins og það er. Þó

er greinilegur munur á rithöfundareinkennum þeirra. Guðmundur er karlmannlegri, grófari, hrjúfari, glettnari, Ólafur er viðkvæmari, fínni, rómantískari. Hann hefir alist upp "við sundin blá" eins og Tómás Guðmundsson. Mundurinn getur verið aldursmunur: Það eru átta ár á milli þeirra; líklega er hér þó um föst höfundareinkenni að ræða.

Þá er að víkja að einu byrjendabók ársins, sem út kom á norsku: **Höit flyver ravnen, Roman** eftir Snorra Hjartarson. Það er mjög snotur byrjendabók um margrætt efni: listamanninn í klípu milli ástar sinnar og listar. Eg veit ekki hvernig bókinni hefir verið tekið, eg veit heldur ekki til þess, að höfundur hafi sent frá sér fleiri bækur.

Snorri Hjartarson er fæddur í Arnarholti í Borgarfirði 1907, sonur Hjartar Snorrasonar alþingismanns og Ragnheiðar Torfadóttur frá Ólafsdal. Snorri gekk á Flensborgarskólann, en síðar fór hann til Noregs í för Kristmanns Guðmundssonar. Kvæði eftir hann birtust í **Eimreiðinni** 1930 og **Iðunni** 1931. Eitthvað fleira mun hann hafa skrifað á norsku og dönsku sem mér er ókunnugt um.

Árið 1935 er eins fátækt að frumsmíðum og hið fyrra árið var frjótt. Þó kemur þá út fyrsta bók Elinborgar Lárusdóttur: **Sögur.** Síðan hefir hún gefið út: **Önnu frá Heiðarkoti** 1936 og **Gróður** 1937, smásagna safn.

Elinborg Lárusdóttir er fædd 12. nóv. 1891 að Tunguhálsi í Skagafirði. Í Skagafirði ólst hún upp, gekk á kvennaskóla á Blöndósi og Kennaraskólann í Rvík (1912-14). Á stríðsárunum var hún veik á Vífilstaðahæli. 1918 giftist hún Ingimar Jónssyni presti, síðar skólastjóra í Rvík. Elinborg fór ekki að skrifa fyr en 1932. En **Sögum** hennar var vel tekið. Einar H. Kvaran fylgdi þeim úr hlaði með góðum formála. Enda mátti það. Sumar smásögurnar, helst þær sem fjalla um smælingja, olnbogabörn og eldra fólk minna á það sem Einar Kvaran hefir bezt skrifað. Hér er tvímælalaust styrkur þessarar nýju skáldkonu. Aftur á móti virðast mér lengri sögur hennar mjög mishepnaðar, þrátt fyrir góðan tilgang, — og góða ritdóma. Eg hygg samt, að ef hún legði rækt við fólkið, sem er að eldast, gæti hún enn numið sér óyrktan blett í íslenzkum bókmentum.

Þó að byrjenda-bók Jóns Aðils, **Við horfum á lífið** (Rvík, 1936) sé ekki merkileg, þykir rétt að nefna hana hér, vegna þess, að höfundurinn mun vera hinn eini þjóðræknissinni, sem sent hefir frá sér sögusafn.

Jón Þórður Aðils er fæddur í Reykjavík 15. janúar 1913, sonur þeirra Jóns Jónssonar Aðils prófessors í sögu Íslands og Ingileifar Snæbjarnardóttur. Jón Þ. Aðils tók gagnfræðapróf á Mentaskólanum 1929 og fékst síðan við símavinnu, skrifstofustörf og leiklist. Hann var einn af stofnendum þjóðræknisflokksins (2. jan. 1934) og hefir síðan gegnt ýmsum trúnaðarstörfum fyrir hann, sem formaður o. fl.

Áður höfðu komið smásögur eftir hann í **Fálkanum** og **Mjölni.** Annars er engu að spá um manninn eftir

bók hans. Sumar sögurnar eru fremur viðvaningslegar. En það er í þeim ást Reykvíkingsins á sveitum og öræfum landsins, lotning fyrir hinum gömlu verkalúnu bændum, ásamt heilbrigðum skilningi á því að lífið er starf, en ekki skemtanir eða kaffihúsasetur á Hótel Borg.

Það er of snemt að geta nokkru í eyðurnar um höfunda þá, sem komið hafa fram síðan 1936, enda kann eg aðeins skil á tveim þeirra: Hirti Halldórssyni, er gaf út smásagnasafnið **Hraun og malbik** 1936 og Stefáni Jónssyni, höfundi að **Konan á klettinum** 1937, sem líka eru smásögur.

Hjörtur Haldórsson er fæddur í Reykjavík 18. júní 1908, en ólst upp á Borðeyri þar sem faðir hans Halldór Kr. Júlíusson var sýslumaður. Varð stúdent 1928, fór ári síðar til Khafnar og lagði stund á músík (fiðlu, píanó). Að prófi loknu var hann um tíma í Vínarborg, en kom til Íslands 1934. Þar fékk hann ekkert að gera, fór því aftur til Kaupmannahafnar. Skrifaði hann á leiðinni smásöguna "Hraun og malbik" og birti hana ásamt fleirum í dönskum blöðum. Síðan lét hann safnið koma út á íslenzku. "Hraun og malbik" er ágæt skyndimynd af frægum íslenzkum málara, og fleiri sögur eru vel sagðar. — Vorið 1938 fór Halldór til Canada, bjó um tíma í Wynyard, Sask., en hvarf heim aftur bráðlega.

Stefán Jónsson er fæddur að Þorgautsstöðum í Borgarfirði 1905, af bændafólki kominn. Stefán gekk á Laugarvatnsskólann tvo vetur, síðan á Kennaraskólann (útskr. 1934). Nú er hann kennari í Austurbæjarbarnaskólanum. Stefán vann verðlaun **Eimreiðarinnar** fyrir smásöguna "Konan á klettinum" 1933. Síðan hafa birst eftir hann smásögur í tímaritum (**Dvöl, Iðunn, Rauðir pennar**). En smásagnasafnið: **Konan á klettinum** kom ekki fyr en 1937. Í því eru laglegar sögur.

Í þessu yfirliti hygg eg að ekki sé taldir aðrir höfundar en þeir, sem segja má um með sanni að þeir hafi eitthvað til brunns að bera, eða séu a. m. k. ekki óefnilegir byrjendur. Hvað úr þeim kann að verða er auðvitað alt undir hælinn lagt.

Eg hefði líka gjarnan viljað taka upp Indriða Indriðason (**Örlög** 1930, falleg byrjendabók) og Jón H. Guðmundsson (**Frá liðnum kvöldum** 1937, ekki ósnotrar smásögur), en um þá höfunda veit eg ekki neitt. Á því er og varla nokkur vafi, að fram hafa komið í tímaritunum höfundar, sem eru engu óefnilegri en þeir, sem hér eru taldir; en eg hef gert mér að reglu að taka þá eina, sem bækur hafa ritað.

Hvaðan eru nú þessir ungu höfundar? Fimm úr Reykjavík, þrír úr Borgarfirði, tveir af Suðurlandsundirlendinu, tveir Austfirðingar, einn Eyfirðingur (†), einn Skagfirðingur, einn Vestfirðingur og einn af Vesturlandi (?). Reykjavík, Borgarfjörður og Suðurland eru sýnilega leiðandi, en enn sem komið er virðast sveitapiltarnir ætla að snúa á Reykvíkingana.

Þá er ekki ófróðlegt að athuga mentun þessara manna. Tveir hafa stúdentspróf (annar þeirra dáinn), fjórir hafa haft einhverja gagnfræðaskólamentun, a. m. k. Fimm eða sex hafa haft kennaraskóla-

síðla í júlímánuði og heimsótti allar íslenzkar bygðir hér í álfu. Ræður flutti hann hvar sem hann fór, og hvatti menn til samtaka að vinna að eflingu "hins andlega íslenzka ríkis." Þá mun hann hafa átt drýgstan þátt í því, að fjögur skáld vor: Guttormur J. Guttormsson, Þorst. Þ. Þorsteinsson, J. Magnús Bjarnason og frú Jakobína Johnson voru sæmd heiðurslaunum í viðurkeningarskyni fyrir bókmentastarf þeirra. Eins og kunnugt er var Guttormi skáldi boðið heim á ríkiskostnað, og dvaldi hann heima sumarlangt. Undir þenna lið má þá líka telja, samvinnu þá er hafin var á þessu hausti til aðstoðar "Sýningarráði Íslands". Nefnd var skipuð, að tilhlutan félagsins, eftir beiðni utanríkismálaráðuneytisins, er gengst fyrir fjársöfnun til að koma upp við sýningarskálann íslenzka kopar afstypu af Leifs Eiríkssonar myndinni, er Bandaríkja þjóðin gaf Íslandi 1930. Hefir nefndinni orðið vel ágengt með fjársöfnunina, "þó betur megi ef duga skal".

Fjárhagur félagsins er í góðu lagi og rúmum $500 meira í sjóði en var við áramótin í fyrra.

Annars verða skýrslur lagðar fram öllum þessum málum viðkomandi, svo þarflaust er að fara um það fleiri orðum. Segi eg þá þing þetta sett og býð yður öll hjartanlega velkomin í nafni félagsins.

**Rögnv. Pétursson**

Að loknu erindi forseta stóð þingheimur úr sætum og þakkaði með almennu dynjandi lófaklappi.

Ásmundur P. Jóhannsson reis þá úr sæti og kvað sér hljóðs. Las hann gjafabréf fyrir fílabeinshamri, er hann hafði gera látið á Íslandi sem minningargjöf til Þjóðræknisfélagsins á tvítugs afmæli þess. Bréfið fer hér á eftir.

**Til minja um 20 ára starf Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi.**

Það er ekki neinn veldissproti, sem eg er umkominn að færa Þjóðræknisfélaginu að gjöf, sem eg þó gjarnan vildi, — veldissproti, sem gæti rekið á burt allar álögur efasemda og sinnuleysis almennings með að tilheyra Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi og skipa sér utan um það, sem eitt af okkar menningarmálum, sem mundi tvímælalaust gefa okkar þjóðflokki virðingu og vaxandi álit bæði meðal þeirra þjóða, sem við erum búsettir hjá og partur af, og eins hjá okkar stofnþjóð, sem við komum frá, því "sameinaðir stöndum vér, sundraðir föllum vér".

Ekki er nú þetta heldur neinn nazista Þórshamar , sem eg ætla að gefa félaginu, — á honum hefi eg enga velþóknun, — heldur er það ofurlítill minjagripur, sem eg nefni aðeins fundarhamar.

Sjálfur hefi eg oft fundið til þeirrar vöntunar, sér í lagi á okkar þjóðræknisþingum, að forseti félagsins skuli aldrei hafa verið gerður út með sérstakan fundarhamar við hans hæfi, sem hann gæti kvatt sér hljóðs með, og haft stjórn á fundarsköpum að þingræðis sið. Úr þessu tókst mér nú að bæta á síðast liðnu sumri á Íslandsferð minni. Þá fékk eg hinn alkunna listamann Ríkarð Jónsson í Reykjavík að búa til þennan hamar, sem eg vil nú færa Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi að gjöf á hinu tuttugasta ársþingi félagsins.

Hamarinn er gerður úr ekta fílabeini, og vigtar 5¾ únsur. Stærð hamarshaussins er 1¼ x 2⅞ þumlunga. Á hann er grafið annars vegar stimpill Þjóðræknisfélagsins, en hinsvegar fangamark gefandans. Framan á hausinn er grafið "Stofnað 1918". Skaft hamarsins er þrír fjórðu hlutar úr þumlungi á breidd og sex og einn fjórði þumlungs á lengd, og á því stendur sléttubandavísan ágæta eftir skáldið Einar Benediktsson, sem kveða má á marga vegu, sem svo hljóðar:

"Milli stranda bindur bönd
Bræðra andans kraftur.
Hylli landans vina vönd
Vitjar handan aftur."

Með kærri þökk til félagsins fyrir vel unnið og fórnfúst starf á liðnum árum, og beztu hamingjuóskum á komandi ár-

um. Megi Íslendingum, austan hafs og vestan, ávalt og æfinlega blessast starf þess og framkvæmdir.

Á. P. Jóhannsson

Var hamarinn, sem er hin mesta listasmíð, þakkaður með marg-endurteknu lófaklappi. Dr. R. Beck stakk ennfremur upp á að allir stæði úr sætum í þakklætisskyni og var það fúslega gert.

Þá las ritari yfirlit yfir fundarhöld á árinu:

Stjórnarnefndin hélt sextán fundi á félagsárinu. Voru þar rædd og til lykta leidd allflest þau mál, er síðasta þing fól nefndinni til meðferðar, auk þeirra mála, sem eigi voru fyrir séð, og þurftu að afgreiðast eins og t. d. alt það er laut að komu alþingismanns Jónasar Jónssonar, skipun heiðursnefndar í sambandi við íslenzku sýninguna í New York, o. s. frv. Þýðir ekki að rekja neitt af því hér, því skýrsla og ávarp forseta gerir fulla og ítarlega grein fyrir því öllu. Á undanförnum árum var mikill meirihluti fundarhalda í Jóns Bjarnasonar skóla. En á þessu herrans ári voru þar setnir aðeins tveir fundir. Fjórir voru haldnir á skrifstofu Heimskringlu. Allir aðrir í heimahúsum nefndarmanna — hjá forseta fjórir, hjá Ásm. P. Jóhannssyni fjórir, og einn hjá hvorum um sig — Guðmann Levy og B. E. Johnson.

Var þessi greinargerð ritara viðtekin af þinginu.

Þá voru skipaðar tvær nefndir.

**Kjörbréfanefnd.** Dr. Beck stakk upp á og vara-ritari studdi, að forseti skipi þriggja manna kjörbréfanefnd. Var tillagan borin upp og samþykt og í nefnd skipaðir A. P. Jóhannsson, Davíð Björnsson og Elin Hall.

**Dagsskrárnefnd.** Tillaga vara-ritara, B. E. Johnson, og Mrs. Byron um þriggja manna nefnd, samþykt og í hana settir séra Jakob Jónsson, séra Guðm. Árnason og Guðm. Levy.

Þá las féhirðir, Árni Eggertsson, fjárhagsskýrsluna. Var hún borin um salinn á prentuðu blaði ásamt fjármálaritaraskýrslu og eignaskýrslu skjalavarðar. Er hún sem hér segir:

**Reikningur féhirðis**

yfir tekjur og gjöld Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi frá 15. febr. 1938 til 15. febr. 1939.

TEKJUR:

15. febr. 1938:

| | |
|---|---|
| Á Landsbanka Íslands | $ 1.80 |
| Á Royal Bank of Canada | 1,667.66 |
| Á Can. Bank of Commerce | 1,350.57 |
| Frá Fjármálaritara | 481.37 |
| Gjafir í Rithöfundasjóð | 21.00 |
| Fyrir Auglýsingar | 1,987.60 |
| Fyrir bækur Einars Jónssonar | 96.78 |
| Fyrir barna samkomu | 80.00 |
| Af ferð Jónasar Jónssonar | 665.63 |
| Bankavextir | 14.83 |
| | $6,367.24 |

GJÖLD:

15. febr. 1939:

| | |
|---|---|
| Skólahúsleiga, Winnipeg | $ 75.00 |
| Laugardagsskóli | 100.25 |
| Fundarsalsleiga (ársþing) | 41.00 |
| Rtistjóralaun við Tímaritið | 100.00 |
| Ritlaun | 146.70 |
| Leikhús aðgöngumiðar til skólabarna | 37.00 |
| Prentun 10. árg. Tímaritsins | 547.20 |
| Umboðslaun á auglýsingum | 495.25 |
| Ábyrgðargjöld embættism. | 8.00 |
| Gjöld til stjórnar og lögfr. | 10.00 |
| Veitt úr Rithöfundasjóði | 40.00 |
| Útbreiðslumál og ferðakostn. | 67.30 |
| Síma og hraðskeyti | 33.08 |
| Burðargjöld undir Tímaritið | 18.52 |
| Prentun og skriffönig | 26.20 |
| Auglýsingar (Þingboð) | 26.00 |
| Styrkur til barnablaðsins "Baldursbrá" | 170.00 |
| Jóns Leifs meðl. gjöld | 3.31 |
| Starfslaun Fjármálaritara | 43.10 |
| Kostnaður við að taka á móti gestum | 15.75 |
| Kostnaður við Þing | 30.50 |

| | |
|---|---|
| Til Jónasar Jónssonar, ferðakostnaður og fleira | 645.00 |
| Skógræktarféleg Íslands | 21.00 |
| Til Ein. Jónssonar fyrir bækur | 105.00 |
| Ljósmyndir | 15.00 |
| Frímerki og símskeyti féh. | 5.48 |
| Víxilgjöld á bankaávísunum | 3.23 |
| Á Landsbanka Íslands | 1.80 |
| Royal Bank of Canada | 1,675.98 |
| Can. Bank of Commerce | 1,860.59 |
| | $6,367.24 |

Árni Eggertson, féh.

14. febr. 1939. Yfirskoðað og rétt fundið.

G. L. Jóhannsson, S. Jakobsson

**Yfirlit yfir sjóði félagsins**

| | | |
|---|---|---|
| 15. febr. 1938: | | |
| Byggingarsjóður | $ 31.46 | |
| 15. febr. 1939: | | |
| Vextir | .30 | |
| | | $ 31.76 |
| 15. febr. 1938: | | |
| Ingólfssjóður | 871.64 | |
| 15. febr. 1939: | | |
| Vextir | 4.63 | |
| | | 876.00 |
| 15. febr. 1938: | | |
| Leifs Eiríkssonar myndastyttusjóður | 67.22 | |
| 15. febr. 1939: | | |
| Vextir | .33 | |
| | | 67.75 |
| 15. febr. 1938: | | |
| Rithöfundasjóður | 127.08 | |
| Innborgað á árinu | 21.00 | |
| 15. febr. 1939: | | |
| Vextir | .50 | |
| | 148.58 | |
| Útgjöld | 40.00 | |
| | | 108.58 |
| 15. febr. 1939: | | |
| Peninga innieign félagsins | | 2,454.28 |
| Samtals | | $3,538.37 |

Árni Eggertson, féh.

**Skýrsla fjármálaritara yfir árið 1938**

Inntektir:

| | |
|---|---|
| Frá meðlimum aðalfélagsins | $ 202.40 |
| Frá deildum | 229.25 |
| Seld Tímarit til utanfélagsm. | 17.75 |
| Fyrir seld Tímarit á Íslandi | 36.41 |
| Frá Fröken H. Bjarnadóttur fyrir Tímarit | 25.00 |
| | $ 510.81 |

Útgjöld:

| | |
|---|---|
| Póstgjöld | $ 21.49 |
| Ledger Sheets, umbúðir, o. fl. | 4.85 |
| Sölulaun af seldum Tímaritum | 2.00 |
| Borgað fyrir Tímarit endursend frá Leslie | 1.10 |
| Afhent féhirði | 481.37 |
| | $ 510.81 |

Guðmann Levy

**Ársskýrsla Skjalavarðar**

Tímarit óseld í Winnipeg:

| | | |
|---|---|---|
| 5242 | eint. I.—XVIII. árg. hjá skjalaverði | |
| 25 | eint. hjá umboðsmönnum. | |
| 5267 | eint. 30c að jöfnuði, að frádregnum sölulaunum | $1.580.10 |
| 84 | eint. XIX. árg. hjá skjalaverði og umboðsm. | 84.00 |
| 5351 | eint. alls í Winnipeg | $1,664.10 |

Tímarit á Íslandi:

| | | |
|---|---|---|
| 1339 | eint. alls (1273 eint. óseld 1. september samkvæmt skýrslu þeirra Eiríks Hjartarsonar, Guðm. Hofdal og Stgr. Arasonar; 97 eint. send þar að auki). Sölulaun dregin frá | 324.26 |
| | (Dollarinn virtur á kr. 4.50 án tillits til gengis (samningsákvæði) | |
| 6690 | eint. alls óseld í Wpg. og á Íslandi | $1,988.36 |

Aðrar eignir undir umsjón Skjalavarðar:

| | |
|---|---|
| Svipleiftur samtíðarmanna, 134 eint. samkvæmt síðustu ársskýrslu | $ 100.50 |
| Bókaskápar, (ritvél afsalað) | 15.00 |
| Bókasafn hjá deildinni Frón (sbr. síðustu ársskýrslu | 656.63 |
| Samtals | $2,760.49 |

Yfirlit yfir XIX. árg. Tímaritsins:

Upplagi þessa árgangs (1000 eint.) hefir verið útbýtt þannig:

| | |
|---|---|
| Til deilda félagsins | 471 |
| Til meðlima | 188 |
| Til auglýsenda | 148 |
| Til heiðursfélaga, rithöf., bókasafna o. fl. | 47 |
| Til fjármálaritara (eint. seld) | 12 |
| Til Íslands | 50 |
| | 916 |
| Óseld eint. XIX. árg. hjá skjalaverði og fjármálaritara | 84 |
| | 1000 |

Skrá yfir óseld Tímarit í Winnipeg og á Íslandi:

| | Wpg. | Ísl. | | Wpg. | Ísl. |
|---|---|---|---|---|---|
| 1. árg. | 599 | 95 | 11. árg. | 412 | 52 |
| 2. | 352 | 102 | 12. | 569 | 74 |
| 3. | 104 | 55 | 13. | 278 | 99 |
| 4. | 230 | 99 | 14. | 307 | 52 |
| 5. | 202 | 71 | 15. | 217 | 115 |
| 6. | 366 | 77 | 16. | 191 | 85 |
| 7. | 290 | 49 | 17. | 209 | 64 |
| 8. | 253 | 49 | 18. | 76 | 55 |
| 9. | 190 | 53 | 19. | 84 | 43 |
| 10. | 422 | 50 | | | |
| | | | Samtals | 5351 | 1339 |

—Winnipeg 16. febr. 1939.

S. W. Melsted, skjalavörður

Tillaga G. Levy og Mrs. B. E. Johnson, að vísa fjárhagsskýrslunni til væntanlegrar fjármálanefndar — samþykt.

Fjármálaritari, Guðmann Levy, las þá sinn hluta skýrslunnar, sem að framan er prentuð, að þessu viðbættu:

Eg vil aðeins með fáum orðum gera grein fyrir starfi mínu á árinu. Fyrir útbreiðslu félagsins hefir forseti nú þegar gert nokkra grein.

Á síðastliðnu ári gengu í aðalfélagið 36 nýir meðlimir, og þar að auki hafa 21 nýir meðlimir borgað fyrir 1939, svo að síðan á síðasta þingi hafa 63 meðlimir bætst við. Deildir hafa allar gert skil og meðlimatala hjá flestum fjölgað.

Eg vil nota þetta tækifæri til að þakka öllum þeim sem á einhvern hátt hafa aðstoðað mig við innheimtu meðlimagjalda og öllum þeim, sem útvegað hafa nýja meðlimi í félagið. Eg minnist með söknuði tveggja félagsbræðra okkar, er dáið hafa á árinu, sem voru hver í sínu bygðarlagi innheimtumenn fyrir mig. Það eru Tryggvi Ingjaldsson, Árborg og Sig. J. Magnússon, Piney.

Að endingu, en ekki síst, vil eg líka þakka íslenzku blöðunum, Lögbergi og Heimskringlu, fyrir að hafa haft alt síðastliðið ár auglýsingu fyrir Þjóðræknisfélagið alveg endurgjaldslaust. Vildi eg óska þess, að allir meðlimir félagsins láti í té þakklæti sitt á þann hátt, að kaupa þau og borga, og á einhvern hátt að auka útbreiðslu þeirra. Við vitum öll að þau eiga mjög ervitt uppdráttar fjárhagslega, og þó okkur, ef til vill þyki margt að þeim, og segjum að þau ættu að gera þetta eða hitt, þá megum við undir engum kringumstæðum láta það við gangast, að annað eða bæði þurfi að hætt að koma út. Ef til þess kæmi, þá yrði það okkar félagsskap ómetanlegt tjón.

Guðmann Levy

Skýrsla skjalavarðar, S. W. Melsted, kom þá næst. Er hún áframhald hinnar prentuðu skýrslu ,hér að framan. Fylgdi skjalavörður henni úr garði með nokkrum munnlegum skýringum um eignir félagsins.

Tillögur vara-ritara og Mrs. Byron og vara-ritara og Mrs. J. Kristjánsson, að skýrslum fjármálaritara og skjalavarðar sé vísað til væntanlegrar fjármálanefndar — samþyktar.

Ráðsmaður Baldursbrár, B. E. Johnson, las því næst skýrslu um útkomu og hag Barnablaðsins Baldsurbrá. Skýrði hann munnlega með nokkrum orðum reikning þann sem hér fer á eftir:

**Ársskýrsla Baldursbrár**

Frá 1. okt. 1937 til 1. okt. 1938

Inntektir:

| | |
|---|---|
| Áskriftargjöld, 237 | $ 118.50 |
| Bækur seldar, 24 | 36.00 |
| Frá Þjóðræknisfélaginu | 105.00 |
| Vextir á banka | .11 |
| Í sjóði frá fyrri ári | 13.46 |
| | $ 273.07 |

Útgjöld:

| | |
|---|---|
| Prentun | $ 200.00 |
| Prentun, skuld frá fyrra ári | 19.08 |
| Póstgjöld og vélritun | 42.50 |
| Bókband | 7.50 |
| Á banka | 2.07 |
| Peningar á hendi | 1.92 |
| | $ 273.07 |

B. E. Johnson, ráðsmaður

14. febr. 1939. Yfirskoðað og rétt fundið.
G. L. Jóhannsson, S. Jakobsson

Tillaga Árna Eggertssonar og Karls Jónassonar, að vísa þessari skýrslu til væntanlegrar fjármálanefndar, samþykt.

Þá var lesin beiðni frá ungmennadeild í Wynyard, Sask., er nefnist "Calandi Club", um upptöku í Þjóðrækinsfélagið. Var því fagnað með dynjandi lófaklappi, og því, að allir risu úr sætum. Fer umsóknin hér á eftir:

Wynyard, Sask., Feb. 20, 1939

Secretary-treasurer,
Icelandic National League,
Winnipeg, Man.

Dear Sir:

We, "The Calandi Club" (of Wynyard), do hereby apply for affiliation with the Icelandic National League.

Yours sincerely,
G. R. Eggertsson, president
Jónas Jónasson, sec.-treasurer

Því næst flutti skrifari deildarinnar Frón, Hjálmar Gíslason, skýrslu deildarinnar, ásamt skýrslu um bókasafnið. Fara þær hér á eftir:

**Skýrsla deildarinnar Frón fyrir árið 1938**

Deildin hefir eins og að undanförnu staðið fyrir almennum fundum til skemtunar og fróðleiks og hafa þeir allir farið fram eingöngu á íslenzku máli. Voru 5 almennir fundir haldnir á árinu. Þeir sem flutt hafa erindi eru: Mr. J. J. Bíldfell, Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, Mr. Ragnar H. Ragnar, Mr. Hjálmar Gíslason, Mr. Gissur Elíasson, Mr. Sigurður Helgason, Mr. Einar G. Árnason, séra Valdemar Eylands, Mrs. E. P. Johnson og Mr. Thorvaldur Pétursson. Auk þess hefir deildin notið hjálpar frá íslenzku söngfólki hér í bæ, sem ætíð er viljugt og reiðubúið til að gera þessa fundi skemtilega og aðlaðandi. Deildin telur nú 213 meðlimi, þar af hafa 20 innritast á árinu. Skuldlausir meðlimir eru nú 182. Kostnaður við bókasafn hefir á árinu numið $120.15. Samkvæmt skýrslu gjaldkera átti deildin í sjóði við árslok $141.43. Samkomur og fundir hafa verið vel sótt á árinu, og áhugi fyrir þjóðræknisstarfsemi með besta móti.

Hjálmar Gíslason, ritari

**Skýrsla eftirlitsmanna bókasafns Fróns, 1939.**

Keypar á árinu 8 bækur. Tímarit keypt: Eimreiðin 4 hefti. Bækur Þjóðvinafél., Almanakið, Andvari, Tónlistin, þýtt af Guðm. Finnbogasyni. Bækur Bókmentafélagsins: Skírnir, Safn til sögu Íslands, Annálar.

Nýjar bækur bundnar — 8 bindi.
Gamlar bækur bundnar — 45 bindi.
Viðgerð á eldri bókum — 53 bindi.
Alls bundnar og gert við 106 bækur.

Gefnar bækur til Fróns á árinu 71 bók. 145 meðlimir hafa notað safnið á árinu, og lánaðar hafa verið út 5,000 bækur. Í safninu eru í góðu bandi til útláns 1630 bækur.

Báðar þessar skýrslur voru samþyktar eins og þær voru lesnar, samkvæmt tillögu frá Bergþ. E. Johnson og B. Dalman.

Rósmundur Árnason las því næst:

**Ársfréttir deildarinnar "Iðunn"**
**Leslie, Sask.**

Herra forseti, kæri þingheimur —

Þar sem fréttir þessar eða skýrsla hljóta að verða markaðar innan vébanda deildarinnar, verður að þessu sinni frekar fátt að greina. Þó hefir deildin haldið við horfið, stuðlað eftir mætti að öllum þeim málum, er í þjóðræknisáttina hafa miðað. Meðlimatala hefir haldist að mestu sú sama. Þrjátíu og fimm borguðu iðgjöld sín á árinu. Um meðlimafjölgun er tæplega að ræða, því Íslendingum hefir hraðfækkað hér við Leslie síðastliðin ár. Hafa margir flutt burtu og sumt af þeim burtflutningi verið stórtap fyrir deildina. Eitt dauðsfall hefir orðið innan vébanda deildarinnar. Mrs. Sigrún Hogan andaðist 18. júní s. l. eftir stutta legu. Hún var systir Dr. Ólafs heitins Björnssonar. Hún bar greinilega sitt íslenzka ættarmót, var skarpgáfuð kona, skemtileg í viðræðum og fróð um marga hluti, stórbrotin og höfðingleg í lund. Deildin vottar samúð og hluttekningu aðstandendum hinnar látnu.

Þrír starfsfundir hafa verið haldnir á árinu. Þar á milli hefir stjórnar- og bókanefnd deildarinnar haft fundi og ráðstafað því, sem þörf var til. Eðlilega hefir uppskeru brestur undanfarinna ára dregið allmikið úr starfskröftum deildarinnar. Hefir það sýnilega lamað öll félagsmál, enda mun fátt reynast til langframa eins andlega lamandi og búskapar basl á flatlendi, og fáir reynast nógu stórir til "að láta ekki baslið smækka sig."

Skemtisamkoma var haldin undir umsjón deildarinnar 19. júlí s. l. Þátttakendur á skemtiskránni voru: Ninna Paulson (Mrs. Karl Kopff) dóttir Wilhelms heitins Paulsonar. Hún spilar með afbrigðum vel á fiðlu, og eru Leslie-búar óvanir við að njóta sígildrar hljómlistar í heimabæ. Álítum vér að flestum mundi hafa þótt vel borgað ómakið og inngangseyrir þó ekkert meira hefði verið á skemtiskrá. Einnig voru stödd um sama leyti í bygðinni Dr. Jóhannes Pálsson og fjölskylda hans. Söng dóttir hans Salína einsöng. Hún er enn á unglingsskeiði, en er mjög sönghneigð og hefir valdmikla rödd, fyrir aldur. Hjörtur Halldórson skemti með upplestri. Því er ætíð tekið með fögnuði, að hafa einhvern nýkominn að heiman, ekki sízt þegar um bráðmyndarlegt skáld er að ræða. Séra Jakob, sem er sjálfsagður á skemtiskrá hjá okkur ,sagði smásögur af ýmsum sérstæðum körlum heima. Var því vel tekið. Úr heimabæ höfðum við á skemtiskrá Rósu Ólafsson hjúkrunarkonu, dóttur Sigríðar og Jóns Ólafsson að Leslie. Hún hefir mjög geðfelda rödd, en hjúkrunarstarfið gefur henni lítinn tíma til söngiðkana. Öllu þessu fólki þakkar deildin innilega fyrir aðstoð og góða skemtun. Að sjálfsögðu er mesta starf deildarinnar í sambandi við bókasafnið. Er það starf rækt eins og að undanförnu í fjórum smásöfnum fyrir utan aðalsafnið í Leslie. Til nýrra bóka hefir verið varið fjörutíu og þremur dölum þetta ár, og útlán bóka verið mikið. Skýrsla féhirðis sýnir að inntektir, að viðlögðum fyrra árs sjóði, voru alls $107.29. Útgjöld á árinu $79.92. Í sjóði um áramót $27.37.

Með kærri kveðju til tuttugasta ársþings Þjóðræknisfélagsins og ósk um ánægjulegt og heillaríkt starf.

Rósm. Árnason, ritari.

Ásm. P. Jóhannsson lagði til og Dr. R. Beck studdi að skýrsla þessi sá viðtekin. Samþykt.

Þá las ritari eftir beiðni skýrslu deildarinnar "Ísland" í Brown.

**Ársskýrsla deildarinnar "Ísland"**
**Brown, Man.**

Þjóðræknisdeildin "Ísland" að Brown hefir starfað síðastliðið ár (1938) svipað og að undanförnu Haldið sína fimm fundi, sem áður, að vetrinum, og legið í

dvala yfir sumarið, venjulega, nema þá að eitthvað sérstakt komi fyrir, sem vekur hana til starfa. Við höfum æfinlega, eða svo má það heita, ofurlítið program á fundum okkar — smáleiki, söng og þessháttar, sem unga fólkið fúslega tekur þátt í, og oft eða oftast stendur fyrir, og svo ofurlítinn dans á eftir, til að þóknast því enn meir. En að fá það til að taka nokkuð verulegan þátt í starfsfundum vorum og ræða mál vor þar, er alt erfiðara og gengur lítt. Vona að það atriði gangi betur hjá ykkur sem flestum, ella ekki sem glæsilegast með vora íslenzku fundi í framtíðinni. Oft höfum við notið góðra gesta, og þar af leiðandi haft okkar allra bestu samkomur. En aldrei í eins ríkulegum mæli, sem síðastliðið ár. Þá komu til vor þrír slíkir gæðagestir, hver eftir annan. Og engir hafa skemt oss betur eða frætt meir, en þessir vinir vorir. Og gaman og gott væri að mega eiga von á slíkum gestum sem oftast. Ekkert er eins öflugt og gott til að vekja og örva unga fólkið til umhugsunar um föðurlandið og fólkið þar, lifnaðarhætti og sögu, sem þessar heimsóknir. Fyrirlestrar og samtöl. Manni finst maður sé kominn þangað, og langar til að sjá og heyra meira. Fyrst heimsótti oss fröken Halldóra Bjarnadóttir með allar sínar ágætu hannyrðir og muni, sem allir höfðu gaman af að sjá og skoða og spjalla um og gleðjast yfir. Og svo ekki síður yfir hennar góða og fróðlega fyrirlestri, alúðlegu framkomu og viðmóti, sem fólki geðjaðist svo vel að, og svo að síðustu hið fróðlega og skemtilega samtal um eitt og annað á Íslandi, er svo margir tóku þátt í. Svo kom Jónas Jónsson alþingismaður. Og það var strax sem að maður hefði þekt hann frá því að hann var unglingur, svo blátt áfram og viðkunnanlegur var hann strax að öllu leiti. Og það er ekki lengi að koma í ljós af hverju hann hefir sitt mikla fylgi í stjórnmálum heima, og um leið sína miklu pólitísku mótstöðu. Fyrirlestur hans, samtal og samvera öll var hið ánægjulegasta og uppbyggilegasta að öllu leiti, er vér munum minnast lengi með ánægju og þakklæti.

Guttormur kom síðast, en var ekki síður vel fagnað. Enda ekki að undra því við teljum hann ávalt einn af oss, síðan hann var hér hjá okkur, og erum stolt af. Hann flutti sitt mál með lipurð og spaugi, sem allir fylgdust með og höfðu gaman af. Bar hann mjög svo vel söguna af ferðalagi sínu á Íslandi, af fólkinu, landinu og framförum þar — hvað fólkið var alstaðar indælt og gott, og alt þar miklu betra og fullkomnara en hann hafði búist við. Kæra þökk til ykkar allra fyrir komuna, fróðleikinn og skemtunina. Og komið aftur öll sem fyrst.

J. S. Gillies, forseti

Tillaga Ásm. P. Jóhannssonar og Sig. Eiríkssonar, að þessi skýrsla sé viðtekin, samþykt.

Ritari las

**Ársskýrslu deildarinnar "Brúin"**
**Selkirk, 1939**

Það er óhætt að fullyrða að þessi deild stendur á fastari fótum nú en nokkru sinni fyr. Meðlimatala er yfir 50. Aðalstarfið — íslenzku kenslan — hefir borið mjög góðan árangur. Um 60 nemendur nutu þessarar tilsagnar í íslenzku á síðast liðnum vetri undir umsjón Mrs. Ástu Erickson. Álíka margir nemendur eru hjá Mrs. Erickson í vetur. Bókasafn deildarinnar hefir aukist að mun síðastliðið ár. Nýjar bækur eftir íslenzka höfunda hafa verið keyptar — enda hafa meðlimir notfært sér þessar bækur vel.

Samkvæmt fjárhagsskýrslu féhirðis, er var lesin upp á ársfundi, 25. jan. 1939, þá er hagur deildiarinnar sem fylgir:

Inntektir:

| | |
|---|---|
| Í sjóði frá fyrra ári | $ 40.81 |
| Meðlimagjöld | 45.00 |
| Ágóði af tombólu | 34.90 |
| Ágóði af samkomum | 48.30 |
| Tillag frá Aðalfélaginu | 25.00 |
| Bankavextir | .25 |
| Samtals | $ 194.26 |

Útgjöld:

| | |
|---|---|
| Bókakaup og bókband | $ 62.10 |
| Húsaleiga | 30.00 |
| Barnakensla | 40.00 |
| Tillag til Hockey Club | 5.00 |
| Til Aðalfélagsins | 23.50 |
| Ýmislegt | 17.00 |
| Samtals | $ 177.60 |
| Í sjóði 1. jan. 1939 | $ 16.66 |

Th. S. Thorsteinson, skrifari

Tillaga Hjálmars Gíslasonar og Ásm. P. Jóhannssonar að viðtaka skýrsluna, samþykt.

Þá lagði séra Jakob Jónsson fram álit frá

**Dagskrárnefnd**

Nefndin sem skipuð var til þess að yfirvega dagsskrá þingsins, leyfir sér að leggja til, að þingmál verði tekin fyrir, eins og hér segir:

1. Þingsetning. Lestur hraðskeyta og bréfa, o. s. frv.
2. Skýrslur forseta og annara nefndarmanna.
3. Kosning kjörbréfa- og dagskrárnefndar.
4. Skýrslur frá deildum.
5. Skýrslur milliþinganefnda.
6. Fræðslumál.
7. Fjármál.
8. Samvinnumál.
9. Útgáfumál.
10. Útbreiðslumál.
11. Bókasöfn.
12. Íþróttamál.
13. Minjasafnið.
14. Rithöfundasjóður.
15. Kosning embættismanna.
16. Ný mál.
17. Ólokin störf og að síðustu þingslit.

Jakob Jónsson
Guðm. Árnason
Guðm. Levy.

Tillaga Rósm. Árnasonar og Ásm. P. Jóhannssonar að þessar tillögur dagskrárnefndar séu viðteknar, samþykt.

Dr. R. Beck gerði tillögu, að 3. manna þingmálanefnd sé kosin, stutt af Rósm. Árnasyni og samþykt. Útnefndir: Dr. Beck, séra Jakob Jónsson og Ásm. P. Jóhannsson. Séra Guðm. Árnason stakk upp á, og B. E. Johnson studdi, að útnefningum sé lokið. Var það samþykt, og þessir þrír því kosnir.

Var þá fundi frestað til kl. tvö e. h.

ANNAR FUNDUR

Klukkan 2 eftir hádegi var fundur aftur settur.

Forseti las þrjú heillaóskaskeyti frá Íslandi: Hið fyrsta frá forsætisráðherra Íslands, annað frá Jónasi Jónssyni alþm. og Ófeigi Ófeigssyni lækni, — hið þriðja frá forsetum Alþingis. Fara þau hér á eftir.

Reykjavík, 21—2—39

President Icelandic National League,
45 Home St., Winnipeg, Man.

Á 20 ára afmæli Þjóðrækinsfélags Íslendinga í Vesturheimi sendi eg af hálfu íslenzku ríkisstjórnarinnar og íslenzku þjóðarinnar hugheilar árnaðaróskir og þakklæti fyrir það mikla og merka starf, sem félagið hefir unnið fyrir Ísland og Íslendinga vestan hafs og austan. Megi það samstarf halda áfram og eflast.

Hermann Jónasson, forsætisráðh.

Reykjavík, 21—2—39

Icel. National League,
45 Home St., Winnipeg, Man.

Óskum Þjóðræknisfélaginu til hamingju með hina merkilegu sögu og glæsilegu framtíð. Biðjum félagsmenn og blöðin íslenzku að flytja öllum löndum vestra þúsundfaldar þakkir fyrir ógleymanlegar samverustundir.

Jónas og Ófeigur

Reykjavík, 21—2—39

Icel. National League,
45 Home St., Winnipeg, Man.

Fyrir hönd Alþingis þökkum vér fé-

laginu 20 ára þjóðheillastarf, og óskum því framtíðarblessunar.

Forsetar.

Þá las ritari þingbók fyrsta fundar, og var hún samþykt athugasemdalaust, samkvæmt tillögu Rósmundar Árnasonar, er J. Húnfjörð studdi

Forseti dró athygli þingsins að því, að herra Árni Helgason í Chicago, forseti félagsins Vísir, væri nú staddur í salnum, og bað hann að ávarpa þingið. Mr. Helgason flutti kveðjur frá félaginu "Vísir" og skýrði frá störfum þess — félagslífi, fundarhöldum, samkomum og almennum verkefnum meðal Íslendinga í Chicago. Erindið var flutt munnlega, og því ekki hægt að birta það hér. En að því var gerður hinn bezti rómur, og var ræðumanni þakkaði með almennu lófaklappi.

Séra Jakob Jónsson gaf skýrslu fyrir deildina "Fjallkonan" í Wynyard.

**Skýrsla frá þjóðræknisdeildinni "Fjallkonunni" í Wynyard**

Þjóðræknisdeildin "Fjallkonan" í Wynyard hefir starfað með líkum hætti og undanfarin ár. Fremur fáir fundir hafa verið haldnir, en þó gerðar ákvarðanir um ýms mál, sem félagið og almenning hafa varðað. Ekki hefir öllu verið í framkvæmd komið, sem ráðgert var, en þó nokkru.

Bókasafnið hefir aukist nokkuð á árinu, og er all-mikið notað, bæði af mönnum í Wynyard og Mozart. Mr. Ólafur Hall hefir bókavörzlu, en Mr. Gunnar Jóhannsson annast innkaup bóka.

Íslendingadagur var haldinn í Wynyard, svo sem venja hefir verið. Í þetta sinn var herra Jónas Jónsson alþingismaður frá Íslandi aðalræðumaður, og flutti hann ítarlegt erindi um Ísland og íslenzkt þjóðlíf, sérstaklega framfarir síðustu áratuga. Forseti Þjóðræknisfélagsins, Dr. Rögnvaldur Pétursson var í för með honum, ásamt frú sinni. Talaði hann einnig nokkur orð. Annar gestur frá Íslandi var þar staddur, hr. Hjörtur Halldórsson skáld, og lék hann einleik á píanó. — Aðsókn að samkomunni var ágæt. Deildin vill láta í ljósi þökk sína til þessara manna, og telur sér það sæmd að hafa átt, ásamt öðrum þjóðræknisdeildum, þátt í heimsókn Jónasar Jónssonar vestur um haf.

Hinn fyrsta desember 1938 var haldin samkoma til minningar um tuttugu ára afmæli íslenzks fullveldis,. Þjóðræknisdeildin átti frumkvæðið að því, en annars var unnið að undirbúningi samkomunnar af hóp manna og kvenna, án tillits til þess, hvort þeir voru í félaginu eða ekki. Útvarpið, sem fram fór þennan dag, frá Reykjavík og Winnipeg, var tekið inn í dagskrá skemtunarinnar. Á borðum var íslenzkur matur eingöngu. Var þar fjölmenni mikið saman komið.

Deildin átti þátt í stofnun yngri þjóðræknisdeildar, sem sett var á laggirnar, og átti að starfa á svipuðum grundveili og félagið "Young Icelanders" í Winnipeg. Forseti þess félags var kosinn Mr. Ragnar Eggertsson.

Báðar deildirnar settu sameiginlega nefnd á laggirnar, er vinna skyldi að söfnun gamalla minja víðsvegar um bygðina, og varð henni all-mikið ágengt. Eru munir þeir afhentir á þessu þingi.

Af Íslendingum, sem látist hafa á félagssvæðinu, hafa þessir verið meðlimir deildarinnar á liðnu ári eða fyr:

1. Mr. Sigurjón Axdal.
2. Mrs. Guðrún Axdal, kona hans.
3. Mrs. Björg Axdal
4. Mrs. Guðrún Dalmann
5. Mrs. Ingveldur Eyjólfsson
6. Mrs. Guðrún Ásmundsson
7. Mr. Guðmundur G. Goodman.

Mr. Guðmundur Goodmann hafði um langt skeið verið ritari deildarinnar, og átti mjög mikinn þátt í öllum félagsstörfum. Hann var bókamaður mikill, og ánafnaði Þjóðræknisfélaginu mestan hluta bókasafns síns. Kann deildin honum þakkir fyrir það, og öllum þeim, sem nefndir hafa verið, vill hún þakka samstarf á liðnum árum.

Jakob Jónsson, forseti
Sigurður Jónsson, ritari

á ensku, og skýrði frá stofnun ungmenna-
Árni Eggertsson, K.C., ávarpaði þingið deildarinnar "Calandi" í Wynyard, og spáði góðu um framtíð hennar.

Mrs. Lára B. Sigurðsson gaf skýrslu fyrir hönd "The Young Icelanders", er sýnir að félagsskapurinn er í miklum blóma.

**Annual Report of the Young Icelanders Feb. 1938 to Feb. 1939**

To the Icelandic National League
in Convention,
Winnipeg, Manitoba.

President:

I hereby submit the Annual Report of the Young Icelanders for the term 1938—1939.

It has been very unfortunate that two of our officers have been absent from the city since the fall of 1938. The President, E. B. Olson and the Secretary, Tryggvi Oleson. As a result, there was no meeting until November 13, 1938, when Dr. L. A. Sigurdson, Vice-Pres., called the Executive together. We have been unable to conact Tryggvi Oleson and obtain the Minutes of Meetings prior to this date, therefore, we only report on the activities of the Society since November 13, 1938.

There have been five Executive Meetings and three General Meetings since that date.

At the first General Meeting it was decided to hold the meetings in the homes of members. This, we have found, is most satisfactory, as our members become better acquainted and have a nice social evening together. The order of the meeting is as follows:

1. Business.
2. A Guest Speaker, speaking on some phase of the Icelandic Sagas.
3. An Icelandic Sing-Song, or other form of entertainment.
4. Refreshments.

It was decided unanimously to carry on the work of the Society with the Vice-Pres., Dr. L. A. Sigurdson as acting President and Lara B. Sigurdson as Acting Secretary.

ACTIVITIES:

A Banquet was held at Embassy Hall, in commemoration of Iceland's Independence Day, Dec. 1, 1938.

A Book-Group has been organized. English translations of Icelandic books have been chosen. The Group will read the books, then meet to discuss them.

A Sports Committee has been very active, organizing Toboggan parties Hikes, etc.

MEMBERSHIP:

Present membership — 56.

FINANCIAL REPORT:

**February 22, 1938 to Jan. 21, 1939**

**Receipts:**

| | |
|---|---|
| Feb. 21 — Concert held in First Icel. Federated Church, Collection | $ 47.52 |
| June 2 — Concert held in I. O. G. T. Hall (Cancelled) Tickets sold | 5.25 |
| Membership fees | 2.00 |
| Dec. 1 — Indpendence Day Dinner, Embassy Hall, 59 tickets, 75c ea. | 44.25 |
| Total | $ 99.02 |

**Disbursements:**

| | | |
|---|---|---|
| Feb. 21 — Dr. Balance | | $ 19.60 |
| Feb. 22 — Cash Book | | .45 |
| Feb. 21 — Mrs. Sigurdson, Caretaker J. B. Academy | | 2.00 |
| May 21 — Richardson & Bishop, Mimeographing 500 questionaires | | 3.20 |
| June 2 — Concert, I. O. G. T. Hall: | | |
| Orchestra | $15.00 | |
| Tickets | 3.25 | |
| Viking Press ad. | 3.00 | |
| Columbia Press ad | 3.00 | |
| Posters | 1.00 | |
| | | 25.25 |
| Nov. 18 — Correspondence cards to announce meeting Nov. 22, 1938 | | 1.50 |
| Nov. 22 — Mrs. Sigurdson, caretak. | | 1.00 |
| Dec. 1 — Dinner, Embassy Hall: | | |
| 62 Dinners, 60c each | $37.20 | |

| | | |
|---|---|---|
| Tickets, V. P. Ltd. | 2.70 | |
| Tips | 2.00 | |
| | | 41.90 |
| Jan. 4 — Columbia Press advt. | | 3.00 |
| Total | | $ 97.90 |
| On hand | | 1.12 |
| | | $ 99.02 |

EXECUTIVE FOR THE YEAR ENDING FEBRUARY: 1940:

President—Lara B. Sigurdson
Vice-President—Dr. L. A. Sigurdson
Secretary—Einar Arnason
Treasurer—Margret Petursson
Members at large—
1. Harold Johnson
2. Tom Finnbogason
3. Fanney Magnuson

Respectfully submitted,
Lara B. Sigurdson,
Secretary (Acting)

Tillaga Dr. Beck, studd af Ásm. P. Jóhannss. að viðtaka þessa skýrslu, eins og hún var lesin, — samþykt.

Þá voru lagðir fram munir, er gefnir höfðu verið í Minjasafn félagsins, og gerðu þeir séra Jakob Jónsson og Dr. R. Beck grein fyrir því. Á meðan þeir voru að raða hlutunum, auglýsti forseti skemtiskrár þingkvöldanna.

J. J. Bíldfell hafði orð fyrir milliþinganefnd þeirri, er fjallar um sögu Íslendinga í Vesturheimi. Töluðu og aðrir nefndarmenn, þar á meðal Dr. Beck. Kvað hann sér hafa áskotnast ýms bréf og handrit. Forseti kvaðst og hafa fengið nokkur gögn, sem eigi hafa verið prentuð, öll lútandi að lifi Íslendinga hér í álfu.

A. P. J. fann að því, að nefndin hefði ekki lagt fram skriflega skýrslu. Gerði hann það að tillögu, er Levy studdi, að nefndin geri skriflega skýrslu og leggi síðar fyrir þingið. Samþykt.

Þá las séra Jakob Jónsson upp lista yfir gjafir þær, er félaginu hafa áskotnast í minjasafnið á árinu — um eða yfir 20 alls. Eru þær taldar í heildar eignalista þeim, er síðar verður birtur. Séra Guðm. Árnason lagði til og Sig. Vilhjálmsson studdi, að skýrsla þessi sé viðtekin og þökkuð. Samþykt.

Séra Sigurður Ólafsson gaf skýrslu fyrir hönd Milliþinganefndar, um Sagnir og Munnmæli. Gat hann þess, að sér hefði borist í hendur ýms handrit í bundnu og óbundnu máli. Séra Guðm. Árnason sagði og að sér hefði áskotnast vísur og æfisögubrot Íslendinga hér í landi. J. J. Bíldfell tók og í sama streng. Ragnar H. Ragnar benti á, að ekkert hefði enn verið gert að því að safna óprentuðum lögum og músic eftir lifandi og dána Íslendinga hér vestra, sem óefað mundu týnast, ef ekki yrði undinn að því bráður bugur. Sama væri um fleira einkennilegt í fari þjóðarinnar. Séra Jakob Jónsson talaði um söfnun örnefna og fleiri þau fræði, er liggja við gleymsku. Séra Guðm. Árnason taldi vafasamt hvort heppilegt væri ávalt að halda á lofti öllu, sem hægt væri að safna, jafnvel þótt sumt væri kannske skrítið og gamansamt. Tillaga ritara, að sama nefnd sé beðin að starfa áfram á þessu ári, og muna eftir því, að gefa skriflega skýrslu á næsta þingi, — studd af séra Jakob og samþykt umræðulaust.

Féhirðir, Árni Eggertsson, gaf stutta greinagerð fyrir störfum Rithöfundasjóðs nefndar á árinu. Kvað lítið hafa verið gert að söfnun í sjóðinn. Séra Guðm. tók og í sama streng.

Dr. Beck gerði þá tillögu, að þessi munnlega skýrsla sé tekin gild, og sama nefnd sé beðin að sitja til næsta þings. Rósm. Árnason studdi, og var hún samþykt.

Tillaga Jóns Húnfjörð, studd af B. Dalman, að nefnd sú, er hefir með höndum Sögu Íslendinga í Vesturheimi sé beðin að sitja áfram næsta ár — samþykt.

Fundarhlé í 10 mínútur.

Þá voru tekin fyrir fræðslumálin. J. J. Bíldfell gerði tillögu að 3ja manna nefnd sé skipuð. Séra Sigurður Ólafsson studdi. Var það samþykt, og í nefndina skipaðir Séra Sigurður Ólafsson, Dr. R. Beck og séra Guðmundur Árnason.

**Fjármál.** Tillaga Melsteds og Bíldfells, að skipa 3ja manna nefnd, samþykt, og í þá nefnd skipaðir Ásm. P. Jóhannsson, J. J. Bíldfell og Sigurður Jónsson, Wynyard.

**Samvinnumál,** sýningin í New York og fleira. Tillaga Dr. Beck og Bíldfells, að 5 manna nefnd, auk forseta félagsins sé skipuð til að íhuga þetta mál, samþykt, og í nefndina skipaðir séra Jakob Jónsson, séra Egill Fáfnis, Ásm. P. Jóhannsson, Árni Eggertsson og J. J. Bíldfell.

**Útgáfumál** — Tímaritið, Barnablaðið, o. s. frv. Tillaga J. J. Bíldfell og J. Húnfjörð, að skipuð sé 3ja manna nefnd, samþykt, og í nefndina settir Bergþór E. Johnson, S. W. Melsted og séra Sig. Ólafsson.

**Útbreiðslumál.** Tillaga Dr. Becks og J. J. Bíldfells, að skipuð sé 9 manna nefnd, samþykt, og voru þessir nefndir: Ásm. P. Jóhannsson, séra Guðm. Árnason, Dr. R. Beck, Rósm. Árnason, B. Dalman, Jón Húnfjörð, Árni Helgason, Elías Elíasson, Mrs. Guðr. Friðriksson.

Tillaga J. J. Bíldfell, að þessari nefnd sé heimilað að bæta við sig þeim fulltrúum úr öðrum bygðarlögum, sem þeir álíti heppilegt, — samþykt.

**Bókasafnið.** Forseti skýrði frá því í inngangi máls, að Lestrarfélag Gimlibúa hefði gert með sér þá grundvallarlagabreytingu, að ef það legðist niður, og færri væri en sjö meðlimir eftir, að þá félli allar eignir félagsins til Þjóðræknisfélagsins. Jón J. Bíldfell mintist hinnar rausnarlegu bókagjafar G. Goodman í Wynyard, sem nú er nýlega látinn. Gerði hann þá tillögu, að tveir menn séu valdir til að semja hluttekningar og þakkarávarp til erfingja hins látna. Till. studd af Sigv. Nordal og samþykt.

Sigvaldi Nordal stakk upp á J. J. Bíldfell og séra Jakob Jónssyni til þessa starfs, séra Guðm. Árnason studdi, og var það samþykt.

Séra Guðm. Árnason og J. Húnfjörð lögðu til að 3ja manna nefnd sé skipuð til að íhuga bókasafnsmálið. Var það samþykt og Soph. Thorkelsson, Friðrik Swanson og Mrs. B. E. Johnson skipuð.

**Íþróttamál.** Forseti skýrði frá, að á síðasta þingi hefði verið samþykt, að "The Young Icelanders" tækju algerlega að sér íþróttamálið.

Tillaga séra Guðm. Árnasonar og séra Sig. Ó lafssonar, að þessi liður sé feldur úr dagsskrá, samþykt.

**Minjasafnið.** Séra Guðm. Árnason gerði þá tillögu, að skipuð sé 3ja manna nefnd, er semji skýrslu yfir safnið, og leggi fram tillögur um það. Stutt af ritara og samþykt. Þessir skipaðir: B. E. Johnson, S. W. Melsted og Davíð Björnsson.

Tillaga Árna Eggertsson og Sig. Vilhjálmssonar að fundi sé frestað til kl. 9.30 að morgni samþykt í einu hljóði.

Að kvöldinu fór fram skemtisamkoma í efri sal G. T. hússins undir forystu "The Young Icelanders" deildarinnar. Var þar meðal annars til skemtana: — Thelma Guttormsson með piano-sóló, Árni Eggertsson, K.C., með ræðu, Fjeldsteds Bræður frá Árborg með tvísöngva, Lillian Baldwin með einsöng, og síðast en ekki sízt hinar ágætu hreyfimyndir frá Íslandi, er herra Árni Helgason í Chicago hafði tekið á ferðum sínum um Ísland og sýndi nú í fyrsta sinni. Lét hann fylgja myndinni langan formála og ágætar skýringar. Dr. Lárus Sigurðsson stýrði samkomunni, og fór hún hið bezta fram. Skemtu menn sér ágætlega, og var troðfullur salur.

### ÞRIÐJI ÞINGFUNDUR

var að nýju settur kl. 10 að morgni hins 22. febrúar.

Forseti las skeyti frá Íslandi, undirritað "Vökumenn Íslands". Og annað frá félagi Vestur-Íslendinga í Reykjavík.

Reykjavík, 21—2—39

Icel. National League,
45 Home St., Winnipeg, Man.

Hugheilar hamingju og framtíðaróskir.

Þökkum 20 ára starf í þágu allra Íslendinga. Starfið heilir

Vökumenn Íslands

Reykjavík, 22—2—39

Þjóðræknisfélag Vestur-Íslendinga

Þökkum starfið. Farsæl framtíð.

Félag Vestur-Íslendinga.

Nefnd sú, er sett var til að semja hluttekningar og þakkar skeyti til ekkju og erfingja G. Goodman í Wynyard, lagði það fram í tillöguformi. Hljóðar það svo:

Vér undirritaðir leggjum til að þingið sendi frú Pálínu Goodman í Wynyard og börnum hennar eftirfarandi ávarp:

"Þing Þjóðræknisfélagsins 1939 vottar yður samúð og hluttekingu við fráfall eiginmanns yðar og föður, Guðmundar G. Goodman. Ennfremur viðurkennir það og þakkar hina höfðinglegu bókagjöf, er félaginu hefir borist frá honum og yður, og telur hana bera fagran vott um ræktarsemi til félagsins og áhuga fyrir málum þess."

Jakob Jónsson
J. J. Bíldfell

Tillaga Dr. Beck og Ásm. P. Jóh. að þetta ávarp sé viðtekið og sent réttum hlutaðeigendum, samþykt.

Þá las ritari þingbók síðasta fundar, og var hún samþykt athugasemdalaust, samkvæmt tillögu frá B. E. Johnson og Ásm. P. Jóhannsson.

Forseti gat þess að hann hefði nú með höndum bréf frá lestrarfélagi Gimli og afrit af lögum þess. Er partur bréfsins sem hér segir:

Dr. Rögnvaldur Pétursson,

Kæri vin:

Loksins sendi eg þér lög Lestrarfélags Gimli. Eg gat það ekki fyr vegna lasleika míns. Ársfundur félagsins var ekki haldinn fyrri en eg var svo frískur, að eg gæti verið þar, og svo þurfti eg að láta vélrita lögin. . . . . .

Þinn einl.
Hjálmur Þorsteinsson

Fara hér á eftir nokkrar greinar laganna, sem sérstaklega snerta tilgang félagsins og ráðstöfun eignanna, ef félagið hættir að starfa.

**Lög fyrir Lestrarfélagið Gimli.**
**Endurskoðuð og breytt 1938.**

1. grein.

Nafn félagsins er: Lestrarfélagið Gimli.

2. grein.

Aðal-tilgangur félagsins skal vera sá, að viðhalda íslenzkum bókmentum og íslenzku þjóðerni, með því fyrst og fremst að kaupa íslenzkar bækur.

3. grein.

Embættismenn félagsins skulu vera: foresti, skrifari, féhirðir, bókavörður og vara-forseti. Skulu þeir vera framkvæmdarstjórn félagsins. Þeir skulu kosnir á ársfundi, til eins árs í senn.

9. grein.

. . . . Góður og gildur félagi er hver sá, sem borgað hefir árstillag sitt og er fimtán ára að aldri, og hefir heimilisfang innan takmarka Gimlibæjar, eða innan fjögra mílna frá suður, vestur og norður takmörkum Gimli-bæjar.

21. grein.

Félagið skal hætta starfsemi sem félag, er það hefir færri en sjö góða og gilda félaga samkvæmt 9. grein, og skulu þáverandi félagar fara með eignir og bækur félagsins samkvæmt fyrirmælum tuttugustu og annarar (22) greinar í lögum þessum.

22. grein.

Geymslustað bóka og eigna félags þessa má aldrei færa út fyrir merkjalínu Gimli-bæjar, svo lengi sem það er starfrækt í anda og tilgangi þessara laga, en ef félagið hættir starfsemi samkvæmt fyrirmælum og tilgangi þessara laga, eins og gert er ráð fyrir í 21. grein, eða

af öðrum ástæðum verður óhæft til starfa, þá skulu bækur og allar eignir Lestrarfélagsins Gimli verða eign Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, og skulu þáverandi félagar sjá um, að afhenda allar eignir og bækur Lestrarfélagsins Gimli til Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, samkvæmt fyrirmælum þessarar greinar og 21. greinar.

23. grein.

Þessum grundvallarlögum félagsins má breyta á lögmætum fundi, ef tveir þriðju hlutar félagsmanna eru á fundi og tveir þriðju hlutar atkvæða eru með breytingunni, þó því aðeins, að breytingin hafi verið borin upp á næsta fundi áður.

Lög þessi umbætt og samþykt á almennum fundi, 29. maí 1938.

Jón Guðmundsson, forseti

Hjálmur Þorsteinsson, skrifari

Viðvíkjandi heillaóskaskeytum frá Íslandi, gerði Dr. Beck tillögu er séra Sig. Ólafsson studdi, að 3ja manna nefnd sé skipuð til svara þeim. Var hún samþykt og í nefndina skipaður Dr. Beck, séra Sig. Ólafsson og Árni Helgason.

Dr. Beck las uppkast að tillögu, er hann samdi, í tilefni af því að ríkisháskóli North Dakota er nú 55 ára:

"Í tilefni af því að ríkisháskólinn í Norður Dakota (The University of North Dakota) sem útskrifað hefir fleiri Íslendinga en nokkur annar háskóli í Bandaríkjunum, heldur í dag hátíðlegt 55 ára afmæli sitt, telur þingið vel fara á því, að forseti félagsins sendi forseta háskólans heillaóskir þingsins.

Tillaga þessi var studd af Guðm. Grímsson dómara og samþykt í einu hljóði.

Tillaga Árna Eggertssonar og Ásm. P. Jóhannssonar, að vísa þessu til þeirrar nefndar, er sér um svör við skeytum frá Íslandi, og sé þeim heimilt að bæta G. Grímsson dómara í nefndina — samþykt.

Séra Sigurður Ólafsson las:

**Nefndarálit Fræðslumálanefndar**

1. Þingið telur það mesta nytsemdarverk, að Þjóðræknisfélagið haldi áfram kenslu í íslenzku á sama hátt og að undanförnu, og hvetur Stjórnarnefndina til að styrkja sem mest íslenzkukenslu af hálfu deilda félagsins.

2. Þingið álítur að vaxandi þörf sé á því, að fræða vestur-íslenzk ungmenni, með sýningum mynda og erindum um Ísland og sögu þess, atvinnulíf og menningu.

Beinir þingið þeim tilmælum til stjórnarnefndar, að hún veki athygli félagsdeilda á þessari nauðsyn og styrki þær eftir föngum í þeirri viðleitni.

Í þessu sambandi telur þingið það mjög eftirbreytnisvert, að félag ungra Íslendinga (The Young Icelanders) í Winnipeg hefir tekið upp á starfsskrá sína lestur enskra rita um Ísland og þýðingar á ensku af íslenzkum ritum. Er athygli deilda dregin að skrá þeirri yfir slík rit, sem birt var í Tímariti félagsins fyrir þrem árum síðan.

3. Þingið telur það mjög æskilegt, að deildir og einstaklingar leggi sem mesta rækt við að kenna unglingum íslenzk kvæði og söngva.

Ennfremur telur þingið til fyrirmyndar þá viðleitni sem gerð hefir verið til þess að hafa upplestrarsamkepni á íslenzku meðal æskulýðsins og vill að stjórnarnefndin stuðli að því, að slíkri samkepni sé komið á fót sem víðast.

4. Þingið vottar innilegt þakklæti sitt öllum þeim sem unnið hafa að íslenzku kenslu, bæði af hálfu aðalfélagsins og deilda þess, og hvarvetna meðal Íslendinga; ennfremur þeim Dr. Sig. Júl. Jóhannessyni og hr. Bergþór E. Johnson, sem annast hafa ritstjórn og útgáfu barnablaðsins Baldursbrá. Eigi sízt vill þingið þakka hið ágæta starf Ragnars H. Ragnar í þágu íslenzkrar sönglistar meðal æskulýðs vors.

Sig. Ólafsson,
Richard Beck,
Guðm. Árnason.

Tillaga J. J. Bíldfell, studd af Dr. Beck að nefndarálitið sé tekið fyrir lið fyrir

lið, samþykt. Fyrsti liður lesinn og samþyktur í einu hljóði. Tillögumenn Rósmundur Árnason og Guðm. Grímsson dómari. 2. liður lesinn. G. Grímsson lagði til og séra Jakob Jónsson studdi, að samþykkja hann óbreyttan. Nokkrar umræður. Hann síðan samþyktur með öllum greiddum atkvæðum. Þriðji liður lesinn. Stuttar umræður. Tillaga Ásm. P. Jóh. og J. Húnfjörð, að samþykkja hann óbreyttan, — samþykt. Fjórði liður lesinn og ræddur frá ýmsum hliðum. Tillaga J. J. Bíldfell og Sig. Vilhjálmssonar að vísa þessum lið aftur til nefndarinnar. Samþykt.

Bergþór E. Johnson las því næst:

**Álit útgáfunefndar**

Nefndin leggur til að eftirfarandi tillögur séu samþyktar:

1. Að Tímarit félagsins sé gefið út á sama hátt og að undanförnu, og sjái stjórnarnefndin um útgáfu þess.

2. Að félagið haldi áfram útgáfu Baldursbrár næsta ár og sé stjórnarnefndinni falið framkvæmdarvald í því efni.

3. Að fólk, sem statt er á þingi úr hinum ýmsu bygðarlögum, taki að sér útbreiðslu á blaðinu næsta ár.

B. E. Johnson
S. W. Melsted
S. Ólafsson

Tillaga Ara Magnússonar, studd af Ásm. P. Jóhannssyni, að taka álitið fyrir lið fyrir lið, samþykt. Fyrsti liður, um Tímaritið, lesinn og samþyktur, samkv. tillögu J. J. Bíldfell og Sig. Vilhjálmssonar. Annar liður, um Baldursbrá, lesinn og ræddur. Til máls tóku allmargir fundarmenn, og urðu um hann all langar og skemtilegar umræður. Ritari gerði tillögu um að samþykkja liðinn óbreyttan. Ásm. P. Jóh. studdi.

Breytingartillaga Árna Eggertssonar og Ara Magnússonar, að vísa þessum lið aftur til nefndarinnar, samþykt, og fyrri tillagan því feld.

Þriðji liður, um útbreiðslu Baldursbrár, samþyktur án breytinga, eftir tillögu Dr. Beck og Árna Eggertssonar.

Aftur tekinn fyrir sá liður fræðslunefndarálits, er vísað var til nefndar. Var hann, samkvæmt tillögu Árna Eggertss. og J. J. Bíldfell, samþyktur með áorðum breytingum. Alt nefndarálitið síðan borið undir atkvæði og samþykt í einu hljóði.

Þá las Ásm. P. Jóhannsson

**Álit Útbreiðslunefndar**

Nefnd sú, sem sett var til að íhuga útbreiðslumálin, leyfir sér að leggja eftirfylgjandi álit og tillögur fyrir þingið:

1. Nefndin vill lýsa ánægju sinni yfir því, að yngri deild íslenzks þjóðræknisfélagsskapar hefir verið stofnuð í Wynyard Sask. Ennfremur vill nefndin lýsa ánægju sinni yfir stofnun, vexti og viðgangi þjóðræknisdeildarinnar "Báran" að Mountain og Garðar, N. Dakota.

2. Nefndin telur að mjög mikil nauðsyn sé á því, að nýjar deildir verði stofnaðar alstaðar þar sem því verður mögulega við komið. Vill nefndin sérstaklega benda á eftirfylgjandi staði, þar sem starfsemi ætti að vera hafin, að hennar áliti, í samráði og samvinnu við áhugasama menn þar búsetta: Árborg, Riverton, Gimli, Lundar og Winnipegosis. Til skýringar má geta þess, að deildin í Winnipegosis, sem starfaði með miklum áhuga í mörg ár, er nú hætt starfi. Nefndin vill taka fram í þessu sambandi, að þar sem skilyrðin kynnu að vera betri fyrir stofnun deildar eða einhverskonar þjóðræknissamtaka meðal yngra fólks, þar ætti að snúa sér að þeirri hlið málsins.

3. Þá vill nefndin benda á, að heimsóknir til deilda, sem nú þegar eru til, eru mjög gagnlegar, og að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins má ekki slá slöku við í því starfi. Ætti hún að hvetja deildirnar til að nota sér alla þá utanaðkomandi hjálp, sem þær get fengið, og vera

þeim hjálpleg með útvegun hennar. Það leiðir af sjálfu sér, að því fylgi nokkur kostnaður, og telur nefndin sjálfsagt, að félagið standi straum af honum innan skysamlegra takmarka.

4. Víða í íslenzkum bygðum eru til ýms félög, sem í eðli sínu eru þjóðræknisfélagsskapur, og eru óháð öllum öðrum félagsskap. Telur nefndin vel hugsanlegt, að einhver slík félög væru fáanleg til að gerast sambandsfélög á sama grundvelli og t. d. félagið "Vísir" í Chicago. Vill hún því hvetja til, að stjórnarnefndin geri tilraunir til að komast í samband við slík félög, og bendi þeim á vegi til samstarfs, er geti orðið bæði þeim og Þjóðræknisfélaginu til styrktar.

Ásm. P. Jóhannsson
Rósm. Árnason
Árni Helgason
Bjarni Dalman
Elías Elíasson
Guðm. Árnason
John Húnfjörð
Richard Beck
Guðrún Friðriksson

Tllaga frá J. J. Bíldfell, studd af Ara Magnússyni, að álitið sé rætt lið fyrir lið, samþykt.

Fyrsti liðurinn lesinn og samþyktur óbreyttur, samkvæmt tillögu B. E. Johnson og Sigurðar Vilhjálmssonar.

Annar liður lesinn. Tillaga Sig. Vilhjálmss. og B. E. Johnson, að samþykkja hann eins og hann var lesinn. Til skýringar þessum lið töluðu þeir séra Guðm. Árnason og Rósm. Árnason. Var hann síðan samþyktur.

Þriðji liður lesinn og samþyktur, eftir tillögu Sig. Vilhjálmss. og Rósm. Árnasonar.

Þá var fjórði liður tekinn fyrir, — en með því að kl. var eftir tólf á hádegi, var samþykt að fresta fundi til klukkan tvö eftir hádegi.

## FJÓRÐI ÞINGFUNDUR

Klukkan tvö eftir hádegi var fundur settur enn á ný. Áður en fundargerðir voru lesnar, var snúið sér að þakkarskeytum þeim, er nefnd var falið að senda til Íslands og ennfremur heillósk til N. D. Háskólans. Skeyti til háskólans var fyrst afgreitt, samkvæmt tillögu þeirra séra Guðm. Árnasonar og Sig. Vilhjálmssonar.

Þá voru lesin skeytin til Íslands. Voru þau í flestum atriðum samhljóða viðurkenning og þakklæti fyrir heillaóskirnar til félagsins.

Tillaga S. W. Melsted og B. Dalman, að skrifara sé falið að senda öll þessi skeyti, — samþykt.

Þá las ritari þingbók og var hún samþykt athugasemdalaust.

Næst tilkynti ritari þingheimi, að hann hefði með höndum gjöf til félagsins frá gömlum félagsmanni, fyrrum póstmeistara Sigurði Sölvasyni frá Westburne — landabréf Íslands í eikarumgerð. Gerði hann þá tillögu, studda af mörgum, að félagið þakki gjöfina. Var það gert með því að allir risu úr sætum og klöppuðu.

Var þá tekið fyrir álit útbreiðslunefndar þar sem frá var horfið fyrir hádegi — fjórði liður álitsins. Urðu um hann allmiklar umræður. Séra Guðm. Árnason gerði þá tillögu, að þessi liður sé feldur úr nefndarálitinu og að fimti liður verði að fjórða o. s frv. J. Húnfjörð studdi, og var það samþykt.

Önnur tillaga séra Guðm. Árnasonar í tilefni af því, að þessi liður var feldur úr, var þess efnis, að skipuð sé 3ja manna nefnd, er hafi með höndum samninga og samvinnu milli deilda og lestrarfélaga. Tillagan studd af Rósm. Árnasyni og samþykt. Í nefndina voru skipaðir: Sophonias Thorkelsson, séra Guðm. Árnason og séra Sigurður Ólafsson.

Fimti liður því næst lesinn og samþyktur óbreyttur, samkvæmt tillögu Guðmanns Levy og Karls Jónassonar.

Nefndarálitið síðan samþykt í heild með áorðnum breytingum. Tillögum. G. Levy og séra Sig. Ólafsson.

Davíð Björnsson las álit Minjasafnsnefndar ásamt lista yfir allar eignirnar:

**Alit Minjasafnsnefndar**

1. Nefndin leggur hér með skrá yfir minjasafn félagsins samkvæmt þeim gögnum sem fyrir liggja

2. Nefndin leggur til að stjórnarnefndin tilnefni einn eða fleiri umsjónarmenn, sem taki að sér varðveitslu munanna þar til þeim verður komið fyrir á Minjasafni Winnipegborgar samkvæmt ákvæði 18. ársþings félagsins .

3. Nefndin leggur til að nefnd sé kosin, er starfi að söfnun muna á komandi ári.

B. E. Johnson
Davíð Björnsson
S. W. Melsted

**Munir gefnir í Minjasafnið**
**1934—1938**

1. Kvarnarsteinar — W. J. Osborne, Winnipeg.
2. Stokkur — W. J. Osborne, Winnipeg
3. Lóðavigt — Inga Soffía Goldsmith, Crystal, N. D.
4. Reizla — Arnfríður Jónsdóttir, Baldvin Jónsson, Kirkjubæ.
5. Tína — Arnfríður Jónsdóttir, Baldvin Jónsson, Kirkjubæ.
6. Silfur skeið — Arnfríður Jónsdóttir, Baldvin Jónsson, Kirkjubæ.
7. Rennibor — Arnfríður Jónsdóttir, Baldvin Jónsson, Kirkjubæ.
8. Lóðavigt — Arnfríður Jónsdóttir, Baldvin Jónsson, Kirkjubæ.
9. Prjónastokkur — Áletran. 1800. Guðlaug og Jóhann Frímann.
10. Prjónastokkur — Áletran: "Vertu velkomin að þessum stokk mín góða Guðbjörg Finnsdóttir" 1876. Gog J. Fríman.
11. Smjör öskjur frá fyrri hluta 19. aldar. Gog J. Fríman.
12. Tígulsteinn frá fyrri hluta 19. aldar. Gog J. Fríman.
13. Rokkur frá 7. tug 19. aldar — Gog J. Fríman.
14. Nálhús með stagnálum, 1855. — Gog J. Fríman.
15. Nálhús með skónálum, 1860. — Gog J. Fríman.
16. Ullar kambar (tvennir). — Gog J. Fríman.
17. Ullar-lár, 1855. — Gog J. Fríman.
18. Dúksvunta, 1876 — Svava Líndal, Winnipeg.
19. Millur — Svava Líndal, Winnipeg.
20. Skotthúfa — Svava Líndal, Winnipeg
21. Beislis-stangir — Jón Jónsson, Selkirk.
22. Skautar — Mrs. Jóhanna Cooney
23. Bíldur — C. J. Abrahamson, Sinclair
24. Saumaskrúfa — C. J. Abrahamson, Sinclair.
25. Hornspónn — C. J. Abrahamson, Sinclair.
26. Skónál — Séra Sigurður Ólafsson, Árborg, Man.
27. Kopar-reizla — Valdimar Gíslason, Wynyard, Sask.
28. Signet — Valdim. Gíslason, Wynyard.
29. Brekán — Valdim. Gíslason, Wynyard
30. Hornspónn — Valdim. Gíslason, Wynyard .
31. Beislisstangir — Jón Jónsson, Selkirk
32. Skautar — Jóhanna Bjarnad., Selkirk
33. Vöflujárn — Þórunn Anderson, Wpg.
34. Rjómaskeið úr silfri, úr búi séra Hákonar Espólíns—Ásta Nordal, Holar, P. O., Sask.
35. Signet úr silfri, úr búi H. Espólíns — Ásta Nordal, Holar, P. O., Sask.
36. Skotthúfa með gullhólk er átti Ingibjörg, seinni kona Espólíns — Ásta Nordal.
37. Húfuprjónar úr silfri — Ásta Nordal.
38. Signet úr kopar er var eign Árna Torfasonar — Ásta Nordal.
39. Skotthúfa með silfurhólk, eign Sigríðar Hákonard. — Ásta Nordal.
40. Sylgja — Magnús Magnússon, Wpg.
41. Hringja — Magnús Magnússon, Wpg.
42. Gömul byssa, einhleypt — Jón Jónsson, Selkirk, Man.
43. Kopar Mortél — afhent af séra S. Ólafsson, Árborg.
44. Skautar — Séra S. Ólafsson, Árborg.
45. Hornspónn — Halldór Guðjónsson, Wynyard.

46. Tréöskjur — Halldór Guðjónsson, Wynyard.
47. Tréöskjur — Halldór Guðjónsson,
48. Signet — Sigríður Björnsson, Wynyard.
49. Sálmabók, 1856 — Sigríður Björnsson, Wynyard.
50. Sálmaflokkar, Leirárgörðum 1797 — S. Egilsson, Wynyard.
52. Reizla — Mrs. Pálína Goodman, Wynyard.
53. Skúfhólkar tveir — Mrs. Pálína Goodman, Wynyard.
54. Úrfesti — Mrs. Pálína Goodman, Wynyard.
55. Ketill — Mrs. Pálína Goodman, Wynyard.
56. Kanna — Mrs. Pálína Goodman, Wynyard.
57. Ponta (um 200 ára) — Sig. Arngrímsson, Wynyard.
58. Tóbaksdós — Sig. Arngrímsson, Wynyard.
59. Púðurhorn 1883 — Finnbogi Guðmundsson, Wynyard.
60. Haglapoki 1874 — Finnbogi Guðmundsson, Wynyard.
61. Reizla — Stef. Arngrímsson, Wynyard.
62. Hnappahulstur — Stef. Arngrímsson, Wynyard.
63. Kaffiketill 1855 — Hósías Hósíasson, Wynyard.
64. Tóbaksdósir (silfur) — Hósías Hósíasson, Wynyard
65. Prjónastokkur 1878 — Sigríður Ísfeld, Wynyard.
66. Nálhús og 10. málar — Sigríður Ísfeld, Wynyard.
67. Gömul bók, — Sigríður Ísfeld, Wynyard.
68. Kleinujárn — Hansína Jónsson, 653 Maryland St., Winnipeg.
69. Íslands kort—Sig. Sölvason frá Wetsbourne.
70. Þilkista — Axel Jónasson, Mozart.

Tillaga Soph. Thorkelssonar, studd af Sig. Johnson, Wynyard, að samþykkja þetta álit, eins og það var lesið, — samþykt.

Tillaga séra Guðm. Árnasonar, að kjósa 3ja manna safnsnefnd, og sé B. E. Johnson formaður hennar og safnvörður, studd af Soph. Thorkelss. og samþykt í einu hljóði.

B. E. Johnson stakk upp á Davíð Björnsson og S. W. Melsted í nefndina. Séra Sig. Ól. studdi, og voru þessir menn auk safnvarðar kosnir í einu hljóði.

Útgáfunefnd bar þá upp breyttan annan lið síns nefndarálits. Tillaga J. Húnfjörðs og Soph. Thorkelssonar að samþykkja hann eins og hann nú var lesinn, var samþykt eftir nokkrar umræður.

Till. B. E. Johnson og Dr. Beck, að nefndarálitið sé samþykt með áorðnum breytingum, — samþykt.

Sophonías Thorkelsson flutti þá

**Álit Bókanefndar**

Nefndin leggur til

1. Að deildin "Frón" sé beðin að semja skrá yfir þær bækur, esm engin eftirspurn er eftir, og þær bækur sem safnið á fleira en eitt eintak af.

2. Það af þessum bókum, sem verðmætar eru og þykja boðlegar, og Manitoba Háskóli á ekki, séu gefnar til hins íslenzka bókasafns háskólans, og að séð verði um að bækurnar verði í sæmilegu bandi.

3. Mikla þörf teljum vér á því, að bætt sé við safnið nýjum bókum.

Soph. Thorkelsson,
Friðr. Swanson
Kristín Johnson

Ari Magnússon lagði til að álitið sé rætt lið fyrir lið. Stutt af Hlaðg. Kristjánsson og samþykt.

Fyrsti liður lesinn og samþyktur óbreyttur, eftir tillögu Mrs. Byron og Sig. Vilhjálmssonar.

Annar liður lesinn og ræddur. Tillaga séra Guðm. Árnasonar, að þessi liður sé samþyktur með þeim orðabreytingum sem komu fram í umræðunum. Rósm. Árnason studdi, og var greinin samþykt eftir að þessar breytingar höfðu verið gerðar.

Þriðji liður lesinn og ræddur. Fyrirspurn Dr. Beck um fríar bækur frá Íslandi svarað af forseta. Kvað hann lítil líkindi til að um slíkt væri að ræða, að svo komnu.

Tillaga séra Guðm. Árnasonar í sambandi við þennan lið, að félagið heimili bókasafninu, eins og að undanförnu, að kaupa bækur á Íslandi fyrir þá peninga, sem inn koma fyrir sölu á ritum félagsins þar. Studd af ritara og samþykt í einu hljóði.

Þá var veitt 10 mín. fundarhlé.

Þegar aftur var tekið til starfa gerði Guðr. H. Johnson lokagrein fyrir störfum Halldórunefndarinnar svonefndu.

**Halldórunefndin.**

Nefnd sú, er kosin var á Þjóðræknisþingi 1937, til að ráðstafa og annast um sýningar og samkomuhöld Halldóru Bjarnadóttur frá Íslandi á ferðum hennar meðal Íslendinga vestan hafs, hefir nú lokið starfi sínu og leyfir sér hér með að gefa lauslegt yfirlit yfir starf það, er nefndin hafði með höndum viðvíkjandi ráðstöfun á samkomum og sýningum á íslenzkum heimilisiðnaði, er hún hafði meðferðis. Eins og þinginu er áður kunnugt, tóku þessi íslenzku félög sameiginlegan þátt í að sjá um ferðir Halldóru: Þjóðræknisfélagið, Bandalag lúterskra kvenna, Sambands kvenfélögin, Jóns Sigurðssonar félagið og Heimilisiðnaðarfélagið. Tvær konur úr hverju félagi skipuðu móttökunefndina. Skömmu eftir Þjóðræknisþingið 1937 byrjaði þessi nefnd að starfa og skipuleggja samkomur og sýningar. Kvenfélögum og einstaklingum víðsvegar út um bygðir Íslendinga var skrifað og þess farið á leit af nefndinni, að Halldóru Bjarnadóttur yrði gert mögulegt að ferðast um og hafa sýningar. Þessu máli var alstaðar vel tekið og drengilega. Sýnir skýrsla féhirðis nefndarinnar það svart á hvítu, hve vel fólk greiddi fyrir gestinum frá Íslandi bæði í Canada og Bandaríkjunum. Auk þess bárust nefndinni bréf og ummæli, þar sem fólk lét ánægju sína í ljósi yfir því að hafa haft tækifæri á að sjá og kynnast íslenzkum heimilisiðnaði. Þar voru líka margir hlutir prýðilega vel unnir, og góð sýnishorn af því starfi, sem kvennasamböndin á Íslandi eru að vinna að, til að styrkja og efla innlendan iðnað. Látlaus og vinsamleg framkoma Halldóru Bjarnadóttur, ásamt því að bera á milli Austur- og Vestur-Íslendinga vinsamleg ummæli og hlýjar kveðjur, áttu sinn þátt í því, að nefndin minnist þess með ánægju, að hafa unnið saman að þessu málefni. Mun það vera í fyrsta skifti að íslenzku kvenfélögin hér vestra hafi sameinað krafta sína um eitt málefni. Sú samvinna var í alla staði ánægjuleg. Nefndin vottar þakklæti sitt íslenzku vikublöðunum Lögbergi og Heimskringlu fyrir léða liðveitslu, með því að gefa allar auglýsingar og ljá rúm öllum þeim skrifum, er nefndin setti í þau, auk meðmæla blaðanna sjálfra. — Stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins umgekst, að fá alla sýningarmuni flutta tollfrítt inn í Canada. Þess skal líka getið með þakklæti, að á meðan Halldóra dvaldi í Winnipeg, var hún hjá tveimur nefndarkonunum til heimilis sem gestur þeirra. Það voru þær frú J B. Skaptason, Maryland stræti, og frú B. E. Johnson, Dominion stræti. Bjó hún þó aðallega hjá frú Skaptason, og á heimili hennar var Halldóru haldið kveðjusamsæti er móttökunefndin stóð fyrir. Var henni afhent þar lítil gjöf að skilnaði til minningar frá þeim félögum, er ráðstafað höfðu og séð um ferðir hennar hér vestra.

Guðr. H. Johnson,
skrifari nefndarinnar

Þá las Mrs. B. E. Johnson fjárhagsskýrslu sömu nefndar.

**Fjárhagsskýrsla móttökunefndar Halldóru Bjarnadóttur**

INNTEKTIR:

| | |
|---|---|
| Samkoma í Fyrstu lút. kirkju | $ 60.00 |
| Sýning hjá T. Eaton Co. Ltd. | 54.76 |
| Samkoma á Gimli | 30.00 |
| Riverton | 26.25 |

| | |
|---|---|
| Árborg og Víðir | 41.90 |
| Langruth | 16.65 |
| Selkirk | 18.00 |
| Lundar | 35.88 |
| Akra, N. D. | 25.25 |
| Hallson, N. D. | 11.55 |
| Mountain, N. D. | 25.60 |
| Garðar, N. D. | 27.60 |
| Seattle | 18.00 |
| Blaine | 29.28 |
| Bellingham | 16.50 |
| Point Roberts | 10.72 |
| Vancouver | 8.50 |
| Regina | 10.00 |
| Moose Jaw | 5.00 |
| Glenboro | 26.30 |
| Leslie | 10.00 |
| Wynyard | 43.32 |
| Foam Lake | 11.75 |
| Churchbridge | 11.85 |
| Baldur | 15.00 |
| Endurborgun frá tollhúsi Bandaríkja | 81.00 |
| Minneapolis | 25.00 |
| Minneota | 30.00 |
| Upham | 22.00 |
| Brown | 16.00 |
| Winnipegosis | 28.00 |
| Samkoma í Sambandskirkju | 30.00 |
| Vextir á banka | .46 |
| | $824.22 |

ÚTGJÖLD:

| | |
|---|---|
| Fyrir símskeyti | 5.69 |
| Fargjald til Lundar og Langruth | 10.03 |
| Fyrir myndir í blöðunum | 1.88 |
| Burðargjald á kistum frá Íslandi | 27.68 |
| Flutningur til og frá á kistum | 1.00 |
| Lán frá Mrs. K. Ólafson endurborgað | 81.69 |
| Kostnaður við kveðjusamsæti | 4.22 |
| Til Halldóru Bjarnadóttur | 692.03 |
| | $824.22 |

Kristín Johnson, féhirðir

Yfirskoðað og rétt fundið
af Mrs. Sophíu Wathne

Forseti nefndarinnar, Mrs. Finnur Johnson talaði þá nokkur orð.

Dr. Beck gerði þá tillögu, að þessar skýrslur séu viðtekar með miklum þökkum. Studd af Árna Eggertssyni og samþykt standandi með almennu lófataki.

Séra Jakob Jónsson flutti þá

**Álit Samvinnunefndar**

1. Þingið lýsir sérstakri ánægju sinni yfir og þakkar komu Jónasar alþm. Jónssonar vestur um haf og telur að hún muni hafa mikil og góð áhrif á samvinnu og samhygð Íslendinga vestan hafs og austan í framtíðinni, og vill þingið vekja athygli á tillögum þeim, er hann hefir gert í greinum sínum.

2. Þingið fagnar hinum hlýju kveðjum, er félaginu hafa borist frá Íslandi á liðnu ári og hér á þinginu, og skoðar þær sem vott vaxandi velvildar og skilnings á eðlilegri afstöðu Íslendinga vestan og austan hafs hvors til annars.

3. Þingið felur framkvæmdarnefndinni að gera frekari ráðstafanir til að verða við ósk landkynnis frá því í fyrra um söfnun blaðagreina á ensku um Ísland og Íslendinga. Ennfremur beinir það þeirri hvatningu til allra Íslendinga að vera nefndinni til aðstoðar með því að senda henni greinar, er þeim kunna að berast í hendur.

4. Þingið samþykkir að halda áfram þeirri samvinnu, sem þegar er hafin um sýningarmálin, en felur stjórnarnefndinni að öðru leiti nauðsylegar framkvæmdir. Álítur þingið æskilegt, að gerðar séu ráðstafanir, ef mögulegt er, til þess að tryggja Íslendingum sem ódýrast far til New York og dvalarstað í borginni.

5. Þingið telur æskilegt framhaldandi viðleitni til að koma á bréfaskiftum milli ungra Íslendinga vestan hafs og austan.

6. Þingið felur stjórnarnefndinni að gera ráðstafanir til þess, að bókakaup til bókasafna og einstaklinga verði sem greiðust og kostnaðarminst, t. d. með því að fá íslenzka bókaútgefendur til að senda Þjóðræknisfélaginu reglulega lista yfir nýjar bækur, er út koma.

7. Þingið lýsir ánægju sinni yfir því, hve vel tókst með útvarpið milli Íslands og Ameríku á fullveldisdaginn 1. des. Þar sem það útvarp mun hafa dregið hugi manna sterkar saman en flest annað, er reynt hefir verið í þá átt. Ennfremur vottar þingið öllum hlutaðeigendum þakkir fyrir frammistöðuna.

8. Þingið vill af alefli styðja þá hugmynd, að haldið sé námskeið í íslenzkum fræðum, og felur framkvæmdarnefndinni að gera allar ráðstafanir af hálfu félagsins í samvinnu við aðra aðila málsins. Lýsir þingið sérstaklega ánægju sinni yfir þeirri tillögu, er fram hefir komið í grein Jónasar Jónssonar, að kennarar að heiman starfi við slík námsskeið.

Jakob Jónsson
E. H. Fáfnis
Árni Eggertsson
J. J. Bíldfell
A. P. Jóhannsson (ósamþykkur 8. lið)

Tlilaga Dr. Beck og Davíðs Björnssonar, að þetta nefndarálit sé rætt lið fyrir lið, samþykt.

Fyrsta grein lesin og samþykt án breytinga. Tillögumenn: Árni Eggertsson og Dr. Beck.

Önnur grein sömuleiðis samþykt, eftir tillögu B. E. Johnson og Ásm. P. Jóhannss.

Þriðja grein ennfremur samþykt óbreytt, eftir tillögu Sig. Vilhjálmssonar og Dr. Beck.

Fjórða grein lesin. Séra Guðm. Árnason og Ásm. P. Jóhannsson gáfu nokkrar skýringar viðvíkjandi fjársöfnun sýningarnefndarinnar. Forseti skýrði og frá skipun nefndarinnar. Eftir stuttar umræður var svo þessi grein samþykt óbreytt, samkvæmt tillögu A. Eggertss. og Dr. Beck.

Í sambandi við þetta atriði gerði S. W. Melsted tillögu, er Sig. Vilhjálmsson studdi, að nöfn heiðursnefndar séu færð til bókar í þingtíðindunum, ásamt skýringum forseta um skipun nefndarinnar. Var hún samþykt.

Í stuttu máli eru tildrög málsins þessi:

Á stjórnarnefndarfundi, er setinn var í Jóns Bjarnasonar skóla 11. nóv. 1938 var lesið og lagt fyrir til umræðu bréf frá framkvæmdarstjórn íslenzku sýningardeildarinnar í New York, sem fór fram á, að Þjóðræknisfélagið kjósi þessa heiðursnefnd, er sýningarráðið megi leita ráða og aðstoðar hjá í sambandi við sýninguna. Kom nefndin sér loks saman um að útnefna sjö manna nefnd. Skal það tekið fram að sýningarráðið tilnefndi suma þeirra, t. d. forseta, er þeir óskuðu, að skipuðu þessa nefnd.

Að fengnu samþykki þeirra, er ekki áttu sæti í stjórnarnefndinni, var svo nefndin skipuð þessum mönnum:

Dr. Rögnvaldur Pétursson
Dr. Vilhjálmur Stefánsson
Guðmundur Grímsson, dómari
Dr. B. J. Brandson
Árni Eggertsson
Ásm. P. Jóhannsson
Gunnar Björnsson.

Fimta grein nefndarálits samvinnumála nefndar, var því næst lesin og samþykt í einu hljóði. Tillögumenn J. J. Bíldfell og Sig. Vilhjálmsson.

Sjötta grein lesin og samþykt. Tillögumenn B. E. Johnson og J. Húnfjörð.

Sjöunda grein lesin. Fyrirspurn kom frá J. J. Bíldfell um útvarpið til Íslands. Svaraði Grettir Jóhannsson með því að lesa bréf og símskeyti, er skýrðu málið. A. P. Jóhannsson ræddi málið frekar og gat þess að enn væru óuppgerðir allir reikningar í sambandi við það. Var greinin síðan samþykt eftir tillögu B. E. Johnson og Mrs. Byron.

8. grein. Séra Jakob Jónsson og séra Egill Fáfnis lögðu til að samþykkja hana breytingalaust. Ásm. P. Jóhannsson var ósammála nefndarmönnum sínum um þessa grein, og gerði grein fyrir því. Séra Jakob hélt uppi vörn fyrir þessum lið. Séra Rúnólfur Marteinsson taldi víst að svo mætti laga greinina, að allir mættu vel við una.

Breytingartillaga A. P. J. og sr. Jakobs, að þessi liður sé borinn til atkvæða í tvennu lagi samþykt. Var þá fyrri partur lesinn og samþyktur, samkvæmt tillögu beggja hinna síðastnefndu.

Síðari hlutanum var vísað aftur til nefndarinnar eftir tillögu S. W. Melsteds og J. Húnfjörðs.

Séra Egill Fáfnis gerði viðaukatillögu við 7. grein nefndarálitsins, að þingið feli ritara að þakka í nafni félagsins Útvarpsstöðinni CJRC fyrir tíma og fyrirhöfn í sambandi við Útvarpið til Íslands á fullveldisdaginn 1. desember síðastliðinn. A. P. Jóhannsson studdi og var hún samþykt. (Ritari afgreiddi þetta nokkrum dögum síðar og er bréfið í skjalasafni nefndarinnar).

Þá var fundi frestað til klukkan 10 á fimtudagsmorgun.

Að kvöldinu var haldið hið árlega "Frónsmót". Stýrði forseti Fróns, herra Sophonías Thorkelsson samkomunni fyrir troðfullu húsi. Var þar til skemtana: Ávarp forseta, Barnakór undir stjórn Ragnars H. Ragnar, Þ. Þ. Þorsteinsson með erindi, Miss Snjólaug Sigurðsson með pianó-solo, Hjálmar A. Bergmann, K.C., með ræðu, Mrs. Sigr. Olson einsöng og Lúðvík Kristjánsson með gamankvæði. Öll var samkoman hin skemtilegasta og ánægjulegasta. Á eftir voru frambornar rausnarlegar veitingar í neðri sal hússins, og svo var dansað langt fram á nótt.

## FIMTI ÞINGFUNDUR

Á fimtudagsmorgunin, 23 febrúar, var fundur enn á ný settur, laust eftir kl. 10. Forseti bauð velkomna á þing fulltrúa frá deildinni Báran á Mountain, N. D., sem komu seinna en áætlað var vegna lítt færra vega.

Ritari las þingbók og var hún samþykt með einum viðauka, sem þegar var færður inn á réttan stað.

Samþykt tillaga A. P. Jóhannssonar og Guðm. Grímssonar dómara, að þingið votti þakklæti sitt íslenzku blöðunum, Heimskringlu og Lögbergi, ensku dagblöðunum Free Press og Tribune, sömuleiðis blöðunum í N. Dakota, og að síðustu S. W. Melsted, sem leiðbeint hefir fréttariturum ensku blaðanna í sambandi við þingið.

J. J. Bíldfell gerði fyrirspurn um misprentun eða villandi frásögn í ensku blöðunum viðvíkjandi ráðsmensku við Tímaritið, og áleit að það ætti að leiðréttast. Séra Guðm. Árnason og G. Grímsson dómari gerðu tillögu um, að láta þetta atriði ótalið, að því er blöðin snerti, — samþykt.

Þá las ritari langt bréf eða skýrslu frá skrifara deildarinnar "Báran" á Mountain, N. D. Kom það jafnsnemma og fulltrúarnir frá deildinni. Er það skrifað, þegar ekki var útlit fyrir að fulltrúar gætu mætt vegna illviðra.

Mountain, N. D., 20. febr. '39

Herra Gísli Jónsson, skrifari o. s. frv.

Kæri félagsbróðir:

Með því að ekki er útlit fyrir að erindrekar þeir er kosnir voru á síðasta fundi deildarinnar "Báran" til að mæta á ársþingi félagsins í þessari viku, geti komist þangað, vegna illviðra, og ófærra brauta, þá býst eg við að mér, sem ritara deildarinnar, sé skylt að benda á það helzta sem deildin hefir starfað á umliðnu ári.

Eins og flestum er kunnugt var deild þessi nýstofnuð og óskírð þegar þingið kom saman fyrir ári síðan, og hafði þá rúma 20 meðlimi. Nú höfum við 70 fullgilda meðlimi; 7 af þeim gengu inn á síðasta fundi, 4 þ. m. — Tvo félagsmenn höfum við mist úr hópnum á árinu. Halldór Einarsson, Hensel og Guðbrand Bjarnason, Garðar. Auk fullgildra meðlima telur deildin rúml. 20 aðstoðarmeðlimi (associate members).

Fyrsta verk deildarinnar s. l. vor var að kjósa 5 manna nefnd til að safna fleiri meðlimum og útbýta Þjóðr.ritum. Næsta spor var að undirbúa undir samkomu, sem deildin hafði ákveðið að haldin skyldi

á sumardaginn fyrsta, og vorum við svo lánsöm að fá bæði forseta og vara-forseta Þjóðræknisfélagsins til að flytja sitt erindið hvor, á þeirri samkomu. — Dr. R. Pétursson og Dr. Beck. Og vill deildin votta þeim hér með sitt innilegt þakklæti fyrir þá hjálp. Hreinn ágóði af þeirri samkomu varð $45.00. — Næst kom Leikfélag Sambandssafnaðar suður með "Jósafat" undir umsjón deildarinnar, með þeim skilmálum að gefa okkur ¼ af hreinum ágóða ferðinnar. Leikurinn var sýndur á aðeins einum stað, í mið-parti bygðarinnar. Vegna þess að flestir af leikflokknum höfðu vissum störfum að gegna heima fyrir, svo að jafnvel margir af þeim þurftu að komast heim nóttina sömu og leikið var hér. — En leikurinn var vel sóttur, og hrífandi vel leikið og er Báran, ásamt öllum öðrum sem voru þar viðstaddir, þakklátir Leikflokknum fyrir komuna. — Í sinn hlut fékk deildin $27.00 fyrir sína fyrirhöfn; auk ágætrar skemtunar fyrir alla. Þetta skeði á hinn mikla Drottningardag 24. maí. Nokkru áður hafði deildinni borist tilboð frá Mr. Ed. Thorlakson í Chicago um að gefa "dramatic reading and impersonation", á bæði ísl. og ensku, í meðráði með Bárunni, upp á helming af ágóða. Það tilboð var þegið, og upp úr þeirri samkomu höfðum við $16.00 og ánægjulega og uppbyggilega skemtun. — Hér var þá líka hr. R. H. Ragnar staddur, við söngkenslu, og hjálpaði til að gera skemtiskrána ennþá fullkomnari með sínum ágætu piano solos.

Um leið eg minnist á veru hr. Ragnars hér syðra, finst mér eg verða að geta þess, að fyrir tilstilli Bárunnar kom hann til Dakota til að sameina söngkrafta Ísl. í bygðinni, og undir hennar umsjón var söngkenslunni haldið áfram í rúman mánuð, undir hans ágætu stjórn. — Mun okkur lengi minnisstætt hvað mikið hann lagði að sér, til að þessi kensla hans gæti borið sem mestan árangur. Enda var það með afbrigðum hvað miklu hann gat áorkað, á svo stuttum tíma, og hve ágætum tökum hann náði á öllum — börnum og fullorðnum, til að leysa úr læðingi það besta sem til var hjá hverjum einum. — Um það báru vitni þær þrjár söngsamkomur (concerts) sem haldnar voru undir hans stjórn, hér í bygðinni, við endan á starfi hans hjá okkur. Þessa munu allir minnast, með aðdáun og þakklæti.

Ágóðinn af þessum "Concerts" mátti heita að væri nægur til að borga kennaranum, og allan annan kostnað í sambandi við söngkensluna.

Eg vildi óska að þetta þing sæi sér fært að stuðla að því, að einhverju leyti að Mr. Ragnar gæti gefið sig meira við söngkenslu út um bygðir Íslendinga, því eg hygg fátt meira uppörfandi til viðhalds ísl. tungu og þjóðrækni, en túlkun þess fegursta af íslenzkum ljóðum, sem við höfum völ á, og sem sum tónskáldin okkar hafa gert ennþá áhrifameiri. Ragnar er ekki einungis snillingur í því að draga fram radd-hæfileika hvers eins, heldur einnig í því að láta menn skilja hvað þeir eru að syngja, og hvernig eigi að bera það fram. Sérstaklega er þessi kensluaðferð eftirtektaverð þegar hann er að segja til börnum, og unglingum. Þá dugar ekki að muldra ofan í bringu sína lítt skiljanleg orð, með máttleysis-raddblæ. — Við, Dakota-búar þökkum herra Ragnar fyrir hans ágæta starf hjá okkur s. l. sumar og vonumst eftir að mega njóta hans góðu hæfileika á næsta sumri.

Eftir að mestu annir voru um garð gengnar s. l. haust gekkst Báran fyrir því að haldið var áfram með að æfa unglinga og börn í söng á Garðar og Mountain, og sóttu þær æfingar milli 20 og 30 á hverjum stað, einu sinni í viku, fram undir jól. Mrs. H. Johnson (áður Miss Margrét Anderson) úr Hensel-bygð var stjórnandinn, og Miss Katherine Arason, Mountain, pianistinn. Á sama tíma var haldið uppi tilsögn í íslenzku einu sinni í viku á Mountain, þar sem milli 20 og 30 börn nutu tilsagnar. Deildin var svo heppin að fá Miss Kristbjörgu Kristjánsson til að hafa aðal umsjón með þeirri kenslu, sem hefir margra ára reynslu sem kennari og er þar að auki vel að sér í íslenzku máli. — Áður var tilsögn í ísl. haldið við þar til að byrjað var á söngkenslunni seint í

júní. Nú hefir þetta legið í dái síðan um jól. En í janúar tóku nokkrir af Karlakór þeim er Ragnar æfði hér í fyrra, sig saman um að fara að byrja á æfingum, og hafa haldið því uppi einu sinni í viku síðan. Hafa nú myndað félagsskap með sér, og eru um eða yfir 20 gengnir í það. Allir úr Mountain-bygð. Stjórnandi flokksins er Jónatan Björnsson og pianisti Miss Katherine Arason.

Það sem okkur vanhagar nú um mest, er allgott piano, sem við gætum sjálf ráðið yfir, að öllu leiti. Skyldi Báran mega vænta nokkrar hjálpar frá aðalfélaginu til þeirra kaupa?

Eins og ykkur er öllum kunnugt voru samkomur herra Jónasar Jónssonar, sem hann hélt hér í ísl. bygðinni, að nokkru leyti undir umsjón deildarinnar Báran, en þó ekki hvað tímann snerti. Hefðum við mátt ráða því, þá hefðu hans samkomur ekki verið hafðar fyr en einni til tveim vikum seinna, og þá hefu þær verið betur sóttar, en raun varð á. Ekki þarf að fjölyrða um hvað kærkominn gestur hann var öllum sem sáu hann og hlustuðu á mál hans, en einkum og sér í lagi þeim er gátu kynst honum persónulega. Minningarnar um komu hans hingað munu lengi lifa hjá þeim sem nokkru íslenzku unna.

Einn skemtifund hafði deildin s. l. haust, og mátti hver félagsmaður bjóða einum eða fleirum af kunningjum sínum þangað.

Á árinu hafa verið haldnir 4 lögákveðnir fundir, 2 aukafundir, og 2 stjórnarnefndarfundir. — Inntektir deildarinnar á árinu urðu $323.68 og útgjöld $308.48. Í sjóði við árslok $14.90.

Viðvíkjandi tilsögn í íslenzku mætti ennfremur geta þess að Haraldur Sigmar Jr., miðskólakennari á Muontain, bauðst til að veita tilsögn í ísl. málfræði tvisvar í viku ef Báran vildi kaupa bækur þær sem brúkaðar eru við kenslu í þeirri grein við Ríkisháskólann okkar. Bækurnar voru keyptar, og 9 eða 10 nemendur fengust af miðskóla stúdentum, og var haldið uppi kenslu öðru hverju fram um miðjan des., en síðan ekki söguna meir, einhverra orsaka vegna; þó er búist við að byrjað verði bráðlega aftur.

Svo óskar Báran Þjóðræknisfélaginu allrar mögulegrar blessunar á þessu nýbyrjaða ári og heppilegra úrslita allra þingmála. — Og helzt þar með að félagið sæi sér fært að færa þingtíma fram að sumarmálum, á næsta ári.

Virðingarfylst,

Fyrir hönd deildarinnar Báran,
Thorl. Thorfinnson skrifari

Ásm. P. Jóhannsson og Dr. Beck lögðu til að þessu skýrsla sé viðtekin með þökkum. Samþykt.

Önnur tillaga A. P. J., studd af Sig. Vilhjálmss. að þessari deildarskýrslu sé vísað til næsta árs stjórnarnefndar til íhugunar. Samþykt.

Viðvíkjandi sendingu skeyta til Íslands, sem ritara var falið að senda, en hafði ekki unnist tími til vegn þinganna, bauðst Mrs. B. E. Johnson til að vélrita þau og fá þau telegraf félaginu í hendur, og var það þegið með þökkum.

Í þessu sambandi las Dr. R. Beck á ný öll heillaóskaskeytin og svörin við þeim fyrir þá fulltrúa er komið höfðu síðan fyrsta þingdag.

Tillaga A. P. Jóhannssonar og Mrs. Byron, að þingið þakki forseta Fróns og öllum, sem að móti þeirra studdu, ágæta skemtun, — samþykt í einu hljóði.

Önnur tillaga A. P. J. studd af séra Jakob Jónssyni, að þakka forstöðumanni G. T. hússins, umsjónarmanni, og gæzlumanni ágæta umönnun, — samþykt.

Var þá tekinn fyrir seinni liður síðustu greinar samvinnunefndarálitsins, og lesin endursamin mynd hans. Tillaga dr. Beck og A. Aggertss, að samþykkja hann eins og hann nú var lesinn, — samþykt.

Nefndarálitið síðan borið undir atkvæði í heild og samþykt með áorðnum breytingum. Tillögumenn séra Jakob og Sig. Vilhjálmsson.

Ásm. P. Jóhannsson las þá upp

**Alit fjármálanefndar**

Fjármálanefndin leggur til að fjárhagsskýrslur embættismanna Þjóðræknisfélagsins séu viðteknar og samþyktar eins og þær liggja fyrir í hinu prentaða formi.

A. P. Jóhannsson
J. J. Bíldfell
Sigurður Johnson

Tillaga Rósm. Árnasonar og A. P. Jóhannssonar að fjárhagsskýrslurnar séu samþyktar, samkvæmt tillögum nefndarinnar, samþykt.

Ari Magnússon gerði athugasemdir við hið háa virðingarverð á gömlum ritum félagsins. Gerði hann tillögu þess efnis, að gamall bókaforði félagsins sé framvegis virtur á aðeins eins dollars nafnverð. Tillöguna studdi A. Eggertsson yngri og urðu um hana allmiklar umræður. Tillagan var síðan borin undir atkvæði og feld.

Ásm. P. Jóhannsson las þá skýrslu frá

**Kjörbréfanefnd**

Kjörbréfanefndin bendir á, að allir skuldlausir meðlimir deildarinnar "Frón" hafi full þingréttindi, og einnig skuldlausir meðlimir aðalfélagsins. Fultrúar með formleg umboð eru staddir á þinginu frá þessum deildum:

1. Deildin "Iðunn", Leslie. Rósmundur Árnason — 17 atkvæði.

2. Deildin "Brúin", Selkirk (45 atkv.) Bjarni Dalman, 20 atkvæði; Sigvaldi Nordal, 15 atkvæði.

3. Deildin "Ísland", Brown. Jón Húnfjörð, 10 atkvæði.

4. Deildin "Fjallkonan" Wynyard. Sigurður Johnson, 19. atkvæði.

5. Deildin "Báran" Mountain, N. D. Dr. Richard Beck, 4 atkv.

6. Sambandsfélagið' 'Vísir" Chicago. Árni Helgason, 7 atkvæði.

.7 Sambandsdeildin "Calandi," Wynyard. Séra Jakob Jónsson, 7 atkv.

A. P.Jóhannsson,
Davíð Björnsson,
Ella Hall

Nokkrar umræður urðu um atkvæðisrétt deilda, og einkum sambandsdeilda og félaga. Vildi séra Jakob Jónsson að fylgt sé fyrri ákvæðum í þessum efnum.

Tillaga A. P. J. og Levy, að þetta nefndarálit sé lagt yfir þangað til þessar eldri samþyktir, sem nefndar voru, verða lagðar fyrir þingið, — samþykt.

Séra Guðm. Árnason gaf munnlega skýrslu um rithöfundasjóð, og skoraði á þingheim að leggja eitthvað, meira eða minna, af mörkum í þennan sjóð.

Þá var fundi frestað þangað til klukkan tvo eftir hádegi.

SJÖTTI ÞINGFUNDUR

Fundur var svo aftur settur skömmu eftir klukkan tvö að deginum. Ritari las þingbók og var hún samþykt.

A. P. Jóhannsson og Ari Magnússon lögðu til að tekið sé strax fyrir óklárað mál um kjörgengi og atkvæðisrétt deilda, og var það samþykt. B. E. Johnson las gamlar þingsamþyktir og skýrði forseti ýmislegt þessu viðvíkjandi. Urðu allmiklar umræður um þetta.

J. J. Bíldfell gerði þá tillögu, er B. E. Johnson studdi, að öllum fulltrúum frá deildum og auka deildum, sé veitt full þingréttindi og atkvæðisréttur, þótt ekki séu skrifleg skilríki fyrir hendi, — samþ. í e. h.

Kjörbréfanefndarskýrslan síðan lesin að nýju og samþykt, eftir tillögu frá J. J. Bíldfell og B. Dalman.

J. J. Bíldfell lýsti því yfir, að þingmönnum öllum sé boðið að þiggja heimboð frá City Dairy hér í borginni, og gerði

það að tillögu, að þingheimur allur þiggi þetta boð og komi þangað kl. 3.30 e. h. A. P. Jóhannsson gerði breytingartillögu, að mjólkurbúið sé beðið að fresta þessu, og afþakka boðið að svo stöddu. Sveinn Pálmason studdi. Tóku margir til máls. Var breyt. tillagan bornin upp og feld. Tillaga J. J. Bíldfell því næst borin upp og samþykt.

Þá las séra Philip Pétursson upp

**Álit Útnefningarnefndar**

Í fyrra tilnefndi útnefningarnefndin tvo menn í hvert embætti. En núverandi nefnd telur það ekki vera sína skyldu að útnefna fleiri en einn mann í hvert embætti og lætur fundinn sjálfan skera úr, hverjar breytingar hann vill gera eða hverja fleiri hann vill útnefna.

Núverandi nefnd félagsins hefir leyst verk sitt svo vel af hendi, að útnefningarnefndinni finst það eigi til neinna hagsbóta, að neinar breytingar séu gerðar, þar sem allir núverandi nefndarmenn hafa góðfúslega lofast til að vera í kjöri fyrir kosningu til næsta árs.

En eins og öllum er ljóst, er öllum atkvæðisbærum meðlimum frjálst að útnefna eins marga í hvert embætti og þá lystir, — og láta þingheim skera úr með atkvæðagreiðslu.

Útnefningarnefndin leyfir sér þessvegna að útnefna núverandi nefnd í heild sinni eins og hún stendur.

Fyrir forseta: Dr. Rögnv. Pétursson.
Fyrir vara-fors.: Dr. Richard Beck
Fyrir ritara: Mr. Gísla Jónsson
Fyrir vara-rit.: Mr. B. E. Johnson
Fyrir gjaldkera: Mr. Árna Eggertsson
Fyrir vara-gjaldk.: Mr. A. P. Jóhannsson
Fyrir fjármálaritara: Mr. Guðmann Levy
Fyrir vara-frjámálar.: Séra Egil Fáfnis
Fyrir skjalavörð: Mr. S. W. Melsted.

P. M. Pétursson
Ragnar Stefánsson
Jakob F. Kristjánsson

Var þá gengið til kosninga.

Tillaga kom frá Fred Swanson, studd af Sig. Vilhjálmssyni, með þessum lista Útnefningarnefndar sé útnefningum lokið. Forseti bað tillögumenn að draga þessa tillögu til baka, því með henni væri verið að takmarka frjálsræði þingmanna við útnefningar. Var þá tillagan dregin til baka og stungið upp á einum og einum í senn. Fóru kosningar þannig:

Forseti: Dr. Rögnv. Pétursson
Vara-forseti: Dr. Richard Beck
Skrifari: Gísli Jónsson
Vara-skrifari: Séra Valdemar Eylands
Fjármálaritari: Guðmann Levy
Vara-fjármálar.: Séra Philip M. Pétursson
Féhirðir: Árin Eggertsson
Vara-féhirðir: Ásm. P. Jóhannsson
Skjalavörður: S. W. Melsted.

Öll var nefndin endurkosin, nema vararitari er vann kosningu af fyrverandi vara-ritara B. E. Johnson, og vara-fjármálaritari, er vann við aðra kosningu á móti þeim séra Egil Fáfnis og séra Sig. Ólafsson.

Að loknum kosningum þakkaði forseti fráfarandi nefndarmönnum fyrir góða samvinnu á árinu, og kvaðst vonast til að þingið um leið og það byði hina nýju nefndarmenn velkomna, þakkaði og hinum fráfarandi . Var það gert með almennu lófataki og því að allir risu úr sætum.

Yfirskoðunarmaður til tveggja ára var kosinn Grettir L. Jóhannsson í einu hljóði.

Var þá veitt fundarhlé til að heimsækja City Dairy.

Klukkan hálf sex var aftur tekið til starfa.

Séra Guðm. Árnason og séra Jakob Jónsson lögðu til að kosin væri 3ja manna útnefningarnefnd til næsta þings. Var það samþykt og tilefndir Bergþór E. Johnson, Sveinn Pálmason og séra Rúnólfur Marteinsson.

G. Levy og Gunnbj. Stefánsson lögðu til að útnefningu væri lokið, — var það samþykt og þessir þrír kosnir.

### Ný mál

Dr. Beck skýrði frá gerðum Þingmálanefndar og lagði fram áskorun frá 13 mönnum um söfnun og ritun Landnámssögu Vestur-Íslendinga.

"Frá því Þjóðræknisfélagið fyrst var stofnað og alt til þessa dags hefir því verið hreyft öðru hvoru, bæði utan þings og innan að eitt aðal nauðsynja- og skyldustarf félagsins væri það að gangast fyrir útgáfu á landnámssögu Íslendinga vestan hafs.

Nú eru tuttugu ár liðin án þess að af nokkrum verulegum framkvæmdum hafi orðið í þessu máli. Væri það því vel viðeigandi að því yrði hrundið af stað á þessu tuttugasta ársþingi og starfið hafið nú þegar.

Eftir því sem lengra líður verður verkið erfiðara ,og með hverju ári hverfa menn og konur úr hópnum, sem ýmsum gögnum hafa yfir að ráða — og gögnin þannig glötuð. Sérstaklega á þetta við um ýmislegt það er fólk geymir í minni sér og hvergi er skráð, en margt af því er ómetanlega mikils virði.

Nú vill svo vel til að hér er staddur vor á meðal maður sem bæði hefir tíma, hæfileika og fullan vilja til þess að leysa þetta vandaverk af hendi vel og sómasamleg. Vér eigum hér við skáldið og rithöfundinn Þ. Þ. Þorsteinsson. Með sínum ágætu bókum "Vestmenn" og Braziilíusögunni hefir hann sýnt það og sannað að hann er í fylsta máta hæfur til þess starfs; bækur hans njóta almennra vinsælda og hylli.

Vér leyfum oss því að leggja það til að Þjóðræknisfélagið byrji nú þegar á þessu starfi og leiti liðs og samvinnu allra Vestur-Íslendinga, utan félagsins jafnt sem innan, og að það kjósi á þessu þingi sérstaka níu (9) manna nefnd meðlima sinna er heimilað sé að bæta við tölu sína jafn mörgum völdum mönnum utan félagsins.

Winnipeg, 21. febrúar 1939.

Soffanías Thorkelsson
J. K. Jónasson
Davíð Björnsson
G. Árnason
S. Pálmason
R. Árnason
Karl Jónasson
Sig. Júl. Jóhannesson
S. Ólafsson
E. Fáfnis
B. Dalman
Hjálmar Gíslason
Sigurður Sölvason

Alllangar umræður spunnust út úr þessari áskorun og tók fjöldi þingmanna þátt í þeim. Gerði Ari Magnússon tillögu, er séra Guðm. Árnason studdi, að þessu máli sé vísað til sögunefndar þeirrar, er áður hafði verið kosin. Var þetta rætt af nokkru kappi með og móti, unz Árni Eggertsson og B. Dalmann gerðu breytingartillögu að kosin sé 9 manna nefnd, eins og áskorunin fór fram á. Var hún samþykt, og féll hin þar með úr sögunni.

Voru þá tilnefndir þessir menn:

Séra Vald. Eylands, séra Jakob Jónsson, Soph. Thorkelsson, Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, Dr. Richard Beck, Sveinn Pálmason, J. K. Jónasson, E. P. Jónsson, ritstj. og séra R. Marteinsson.

Hjálmar Gíslason og J. Húnfjörð lögðu til að útnefningum sé lokið. Samþykt, og þessir 9 menn kosnir.

Tillaga Dr. Sig. Júl. Jóhannessonar og Sig. Vilhjálmssonar, að nefndinni sé heimilað að bæta við sig þeim mönnum, sem þeir álíti sér í hag. Samþykt.

Tillaga Dr. Sig. Júl. Jóh. að nefndinni sé falið að koma saman nú þegar og ráða fram úr hvað hún geti gert, — sé henni falið að ráða skáldið Þ. Þ. Þorsteinsson, ef hann sjái sér fært að vinna verkið. Sveinn Pálmason studdi og urðu allmiklar umræður.

Árni Eggertsson, K.C., gerði breytingartillögu þess efnis, — að 9 manna nefndin hafi málið með höndum og vinni í samráði við stjórnarnefnd félagsins. Studd af séra Guðm. Árnasyni og samþykt.

Tillaga séra Guðm. Árnasonar, studd af J. Húnfjörð, að fresta fundi þangað til kl. 8 að kvöldinu, og séu ólokin störf afgreidd að lokinni skemtiskránni, samþykt.

Klukkan átta var fundur settur og skemtiskrá fyrst tekin fyrir. Dr. Richard Beck sat í forseta sæti, og stýrði samkomunni. Fyrst hafði J. J. Bíldfell alllangt erindi. Þá söng Mrs. K. Jóhannesson þrjá einsöngva. Næst hafði skáldið Gutt. J. Guttormsson bráðskemtilegt erindi. Að því loknu söng séra Egill Fáfnis fjóra einsöngva. Þá ávarpaði Hjörtur Haldórsson samkomuna nokkrum kveðjuorðum. Næst flutti skáldið Þ. Þ. Þorsteinsson kveðjur til Þjóðrækinsfélagsins og tvö ágæt kvæði. Að lokum flutti séra Valdemar Eylands snjalt ávarp til þingsins. Var troðfult hús og hinn besti rómur gerður að allri skemtiskránni.

Var þá aftur tekið til starfa. Tók Dr. Rögnv. Pétursson aftur forseta sæti. Útbýtti hann heiðursskírteinum til þeirra heiðursfélaga, er þar voru viðstaddir.

Dr. Richard Beck nefndi til nýs heiðursfélaga frú Guðrúnu H. Finnsdóttur og gerði það að tillögu nefndarinnar til þingsins. Fjármálaritari Guðmann Levy studdi. Bar forseti hana undir atkvæði á venjulegan hátt, og var hún samþykt á þann hátt, að allir risu úr sætum, með dynjandi lófataki.

Dr. Beck gerði svolátandi þingsályktun:

Þingið þakkar Þ. Þ. Þorsteinssyni skáldi fyrir þann skerf, sem hann hefir lagt til aukinnar samhygðar milli Íslendinga austan hafs og vestan með útvarpserindum sínum heima á Íslandi, sem síðar voru prentuð í bókinni "Vestmenn", og með ritinu "Æfintýrið frá Íslandi til Brazilíu."

Árni Eggertsson studdi þessa tillögu, og var hún samþykt í einu hljóði.

Ásm. P. Jóhannsson og Guðm. Grímsson dómari gerðu þá tillögu, samkvæmt skriflegri bendingu frá Dr. Beck, að öllum útvarpsstöðvum í Canada og Bandaríkjunum, sem ekki hefðu þegar verið ráðstafað um, sé þakkað fyrir ókeypis aðstoð og hjálp við íslenzk útvörp, og sé Dr. Beck beðinn að taka að sér Bandaríkja stöðvarnar, samþykt.

Tillaga J. J. Bíldfell, studd af A. P. Jóh. að þingið feli félagsstjórninni þau mál, er ekki hefir enzt tími til að afgreiða á þessu þingi.

Þá las ritari þessar fundargerðir og voru þær samþyktar í einu hljóði, og honum heimilað að færa til betra máls.

Var þá þingi slitið.

**Rögnv. Pétursson, forseti**

**Gísli Jónsson, ritari.**



# Auglýsingaskrá Tímaritsins

**Twenty Nine Palms, Cal.**
Jóhannes Sveinsson

**Toppenish, Wash.**
I. Benedictson

**Upham, N. Dak.**
E. J. Breiðfjörð
Mrs. George Freeman
Bergþóra Einarsson

**4. DEILDIR**

**A—"Báran"**

**Mountain, N. D.**

Charlie Anderson
Jóhannes Anderson
Kristinn Arman
Ásgrímur M. Ásgrímsson
Próf. Richard Beck
Albert Bjarnason
G. B. Bjarnason
B. T. Björnsson
Halldór Björnsson
Helgi Björnsson
Björn Eastman
J. J. Einarsson
J. K. Einarsson
Jón M. Einarsson
Málmfríður G. Einarsson
Einar G. Eiríksson
J. J. Erlendsson
Dagbjartur Guðbjartsson
C. S. Goodmundson
John Goodman
B. S. Guðmundsson
S. G. Guðmundsson
Guðm. Grímsson, dómari
V. G. Guðmundsson
Sigmundur Guðmundsson
Thorgils Halldórsson
Ben Helgason
Pétur Herman
Stone Hillman
W. S. Hillman
H. F. Hjaltalín
John Hjörtsson
Chr. Indriðason
Stefán Indriðason
A. V. Johnson
Helgi Johnson
John H. Johnson
Sigurjón Johnson
Símon Jónasson
Guðm. J. Jónasson
Magnús Jónasson
Kristján Kristjánsson
Kristján G. Kristjánsson
Helgi Laxdal
Sigmundur Laxdal
Sigurður Melsted
Stefán Melsted

*After business... comes pleasure*

ESTABLISHED 1877

**DREWRYS**

*Standard Lager*

Old Cabin Ale

Sími 96 361

BEAR IN MIND CLEANLINESS OF PLANT AND PRODUCT

---



## Njótið lífsins að fullu!

Hvort heldur um vinnu eða skemtanir er að ræða, þá njótið þér lífsins ekki fullkomlega ef fætur yðar eru lasburða. Vér höfum rannsakað orsakir til allskonar fótaveiklunar og bjóðum yður að líta inn hjá oss sem fyrst og þiggja ókeypis leiðbeiningar, til linunar við þessum óþægindum. Gerið yður færa um að njóta lífsins — látið gera skóna yðar hjá Macdonald's

## Macdonald Shoe Store Ltd.

"Fæturnar segja fyrir um aldurinn" — 492-4 MAIN ST., WINNIPEG

---

## *Maple Leaf* smjörgerðar húsið á Lundar

Ef það er satt að bóndinn sé bústólpi og að bú sé landstólpi þá er líka Maple Leaf rjómabúið á Lundar sveitarstólpi, sem hver einasti maður þar í sveit á með réttu að vera stoltur af. Það hefir aukið hróður sveitarinnar og nú síðast með því að vinna verðlaun í fimm deildum á smjörsýningunni í Winnipeg. — Þegar þú sérð MAPLE LEAF nafnið á smjör umbúðunum þá veiztu að þar er um fyrsta flokks vöru að ræða.

G. J. BRECKMANN, ráðsmaður

Sveinn Northfield
J. H. Norman
Haraldur Ólafsson
S. T. Ólafsson
G. B. Olgeirsson
Joe Peterson
Helgi Reykdal
Séra Haraldur Sigmar
H. B. Sigurðsson
Mrs. Kristjana Sigurðsson
W. M. Sigurðsson
Fred Snowfield
Magnús Snowfield
Steindór Snædal
Björn Stefánsson
Björn Sveinsson
S. J. Sveinsson
Hjalti B. Thorfinnsson
Th. Thorfinnsson
Snorri Thorfinnsson
T. S. Thorfinnsson
T. M. Thorsteinsson
Gamaliel Thorleifsson
Thorbergur Thorvarðsson

**Sambandsfélagar deildarinnar "Báran"**

Mrs. Guðbjörg Snowfield
Thórarinn B. Snowfield
Mrs. Halldór Björnsson
Freeman Björnsson
Miss Doris Björnsson
Fríða Björnsson
Mrs. S. G. Guðmundsson
Sigurlaug J. Guðmundsson
Sveinbj. O. Guðmundsson
Mrs. F. M. Einarsson
Guðbjörg Einarsson
Freeman J. R. Einarsson
Miss Anna Björnsson
Helgi Björnsson
Mrs. Anna Björnsson
Mrs. Th. Thorfinnsson
Mrs. H. B. Thorfinnsson
Romaine Thorfinnsson
Gerald Thorfinnsson
Mrs. T. S. Thorfinnsson
Stanley F. Thorfinnsson
Lois Ann Thorfinnsson

**B—"Brúin," Selkirk, Man.**

Jón Anderson
Bjarni Árnason
Thora Austman
Miss Dóra Benson
Kristján Bessason
Þórður Bjarnason
Bjarni Dalman
Norman Dalman
Sveinbjörn Dalman
Mrs. Ásta Eiríksson
Guðjón Friðriksson
Kristinn Goodman
Páll Goodman
Mrs. Sigríður Goodman
Jón J. Henry
Mrs. Ingveldur J. Henry
E. J. Hinriksson
Magnús Hjörleifsson
Sigurður Indriðason
Jón Ingjaldsson
Miss Halldóra Jóhannesson
Olgeir Jóhannesson
Gestur Jóhannsson
Ingi C. Jóhannsson
Mrs. Guðlaug Johnson
Mrs. Sigurbjörg Johnson
Mrs. Valgerður Johnson
Mrs. Vigdís Johnson
Hinrik Jónsson
Klemens Jónasson
Einar Magnússon
Páll Magnússon
Mrs. Rakel Maxon
Sigvaldi Nordal
Mrs. Ingibjörg Oddson

Jón Ólafsson
Mrs. Kristín J. Ólafsson
Ólafur Ólafsson
Mrs. Ingibjörg Pálsson
Kristján Pálsson
Jóhann Pétursson
Jóhann Sigfússon
Árni Sigurðsson
Jón Sigurðsson
Sveinn Skaftfeld
Bjarni Skagfjörð
Mrs. Jafeta Skagfjörð
Þorleifur Skagfjörð
Jón Skardal
S. G. Stefánsson
Ágúst Sæmundsson
Oddur Swanson
Ingibjörg Thórdarson
Theódór Thórdarson
Bjarni Thorsteinsson
Th. S. Thorsteinsson
W. P. Thorsteinsson
Walter Walterson, Sr.

**C—"Fjallkonan"**
**Wynyard, Sask.**

S. S. Anderson
Þórður Árnason
B. Arngrímsson
J. Arngrímsson
Thor Ásgeirsson
H. J. Austfjörð
S. Austman
Hallgrímur Axdal
Vigfús Baldvinsson
H. J. Bardal
Þórhallur Bardal
B. Bjarnason
Einar Bjarnason
Mrs. Guðrún E. Björnsson
Sigga Björnsson
Manni Dalman
Árni G. Eggertson, K.C.
Mrs. A. G. Eggertson
Guðmundur Egilsson
Jens Elíasson
Kristinn Eyjólfsson
Th. Gauti
Mrs. Th. Gauti
Gísli Gilles
Jósep Gilles
Gunnlaugur Gíslason
Mrs. Halldóra Gíslason
Gunnlaugur G. Gíslason
Valdimar Gíslason
Sigtr. Goodman
C. H. Grímsson
G. O. Grímsson
H. Guðjónsson
Finnbogi Guðmundsson
G. F. Guðmundsson
Steindór Gunnlaugsson
Þórður Gunnarsson
Ástvaldur Hall
Ólafur Hall
Mrs. Laufey Hall
J. T. Hannesson
H. Hóseasson
Magnús Ingimarsson
Mrs. Albína Jóelsson
Mrs. Rósa Jóhannesson
Gunnar Jóhannsson
Jón Jóhannsson
Mrs. Lilja Jóhannsson
Barney Johnson
Mrs. Jakobína Johnson
Sigurður Johnson
Valdimar Johnson
Kristján Jónasson
Jónas Jónasson
Magnús Jónasson
Séra Jakob Jónsson
Jónas Jónsson
Grímur Laxdal
Th. Laxdal
Mrs. Ingibjörg Lindal

Ingi Magnússon
Leo Melsted
Fríða Pálsson
M. J. Skaffel
Jóhannes Stefánsson

D—"Frón"

Winnipeg, Man.

Stefán Abrahamsson
Karl J. Anderson
Hildur Árnason
Jochum Ásgeirsson
Jón Ásgeirsson
Mrs. Oddný Ásgeirsson
Dr. Kristján Austman
Mrs. Kr. Austman
Dr. Kristján Backman
Mrs. Kr. Backman
Mrs. Salome Backman
Gunnar Baldvinsson
Arinbjörn S. Bardal
Mrs. Nanna Bauer
Jóh. Beck
Mrs. Vigfúsína Beck
S. Benjamínsson
Rafnkell Bergsson
Gísli Bergvinsson
Þorkell Bergvinsson
Jón J. Bíldfell
Guðmundur M. Bjarnason
Mrs. Ingibj. Bjarnason
Ólafur Bjarnason
Sigurður Bjarnason
Andrés J. Björnsson
Davíð Björnsson
Ívar Björnsson
Mrs. A. I. Blöndal
Stefán Brandson
Mrs. Gróa Bynjólfsson
Gunnar Brynjólfsson
Mrs. Ingibjörg Butler
Mrs. Margrét Byron
Mrs. Anna Cameron
Miss Friðmunda Christie
Sigurjón Christopherson
Mrs. Ragnh. Davíðsson
Árni Eggertsson
Stefán Einarsson
Jón Einarsson
Mrs. Guðm. Eiríksson
Guðm. Eiríksson
Margrét Eiríksson
Sigurjón Eiríksson
Mrs. Sigr. J. Eiríksson
Mrs. Jóhanna Ellis
Leifur Ellison
Gunnar Erlendsson
Miss V. Eyjólfsson
Guðm. E. Eyford
Bjarni Finnsson
Friðbjörn Friðriksson
Mrs. A. Gíslason
Mrs. Hallbera Gíslason
Hjálmar Gíslason
Mrs. S. Gíslason
Mrs. G. Goodman
Mrs. Jóna Goodman
Mrs. S. Gottskálkson
Mrs. G. A. Gunnlaugsson
Elin Hall
Mrs. Anna Halldórsson
Mrs. Anna Halldórsson
Halldór Halldórsson
Mrs. Ásta Hallsson
Páll Hallsson
Karl Hansson
Stefán Hansson
Thorleifur Hansson
Mrs. Oddný Helgason
Mrs. Jóhanna Holm
Mrs. Guðm. Ingjaldsson
Miss Sigríður Jakobsson
Steindór Jakobsson
Mrs. Ásm. Jóhannesson
Mrs. G. Jóhannesson
Mrs. J. Jóhannesson
Ásm. P. Jóhannsson
Mrs. Á. P. Jóhannsson
Mrs. Guðrún Jóhannsson
Gunnl. Jóhannsson
Grettir L. Jóhannsson
Mrs. Kristín Jóhannsson
J. W. Jóhannsson
Stefán Jóhannsson

Miss Anna Johnson
Alex Johnson
Mrs. Alex Johnson
Mrs. A. B. Johnson
B. E. Johnson
Mrs. B. E. Johnson
Björg Johnson
Finnur Johnson
Mrs. Guðrún Johnson
Mrs. Helga Johnson
Mrs. Henrietta Johnson
Helgi Johnson
Ingim. Johnson
K. H. Johnson
Magnús Johnson
Oddfríður Johnson
Jónas Jónasson
Karl Jónasson
Snorri Jónasson
Mrs. Snorri Jónasson
Jón Jónatansson
Mrs. Jón Jónatansson
Einar P. Jónsson
Mrs. Einar P. Jónsson
Mrs. Guðrún H. Jónsson
Gísli Jónsson
Gísli Jónsson
Friðrik Kristjánsson
Miss Hlaðg. Kristjánsson
Jakob F. Kristjánsson
Mrs. J. F. Kristjánsson
Kristján Kristjánsson
Lúðvík Kristjánsson
S. B. Kristjánsson
Guðmann Levy
Mrs. Margrét Levy
Hannes J. Líndal
Mrs. Hannes. J. Líndal
Lýður S. Líndal
Una Th. Líndal
Svafa S. Líndal
W. J. Líndal, K.C.
Agnar Magnússon
Ari G. Magnússon
Böðvar Magnússon
Jóhann Magnússon
Mrs. Jón Magnússon
Jón Magnússon
Magnús Magnússon
Magnús E. Magnússon
Miss Steinunn Magnússon
Jón Markússon
Mrs. Helgi Marteinsson
Sr. Rúnólfur Marteinsson
Mrs. Ingunn Marteinsson
Loftur Mathews
Mrs. J. McAfee
Mrs. Guðr. Mýrman
Mrs. S. Nordal
W. Nordal
Mrs. Sig. Oddleifsson
Miss K. Oddson
Mrs. Sezelia Oddson
Valgarður Oddson
Anna Ólafsson
Áslaug Ólafsson
Jón Ólafsson
Sigtryggur Ólafsson
Mrs. Th. Ólafsson
A. B. Olson
Sveinn Pálmason
Miss Margrét Pálsson
P. S. Pálsson
Mrs. P. S. Pálsson
Miss Margrét Pálsson
Sigfús Pálsson
Miss Stefanía Pálsson
Mrs. Aug. Paulson
Mrs. Dorothea Peterson
Hannes Pétursson
J. K. Pétursson
Mrs. Jóhanna Pétursson
Mrs. K. Pétursson
Ólafur Pétursson
Sr. Philip M. Pétursson
Dr. Rögnv. Pétursson
Mrs. Hólmfr. Pétursson

